[Þess íslendska evangeliska smábókafélags rit Nr. 18.]

Nockrar

# Hugvekjur,

útlagdar úr engelsku af útgef.

## 1 Hugvekja.

Hvad stodar manninn þad, þó hann ávinni allan heiminn, en lídi tjón á sálu sinni? Eda hvad skal madurinn greida til lausnargjalds fyrir sína sálu? seigir Jesús hjá Matth. í 16 cap.

Med því sálin er þad allra dýrmætasta af öllu, sem Gud oss géfid hefur, þá erum vér sjálfskyldugir ad bera meiri umsorgun fyrir henni, enn öllu ødru. En Gud nádi! hvørsu gagnstædt þessu geingur þó til í heiminum? Hvørsu fáir eru þeir, sem láti umsorgun sálar sinnar vera sitt stærsta naudsynja verk, í þessu lífi? O, í Guds nafni! allir þer sem lesid, edur heyrid ord þessi lesin, hugsid alvarliga um, hvørt þer erud í tølu þessara fáu, edur hinna, er umsorgun sálar sinnar svo dárliga í vind kasta, og vanrækja hana fyrir hiegómans sakir? Ef þér nú merkid ydur vera í tølu þessara sídari, þá meigid

þér halda eitt alvarligt einfal vid sjálfa ydur, á þennan hátt: «Hvad er eg? Er eg ecki ein manneskja, sem hefi sálu og líkama? Mín sála er ódaudlig; hún hlýtur ad lifa annadhvort í eilífri sælu, edur eilífri hörmúngu. Hún getur mœti tekid einni endanliga stærri sælu edur stærri vísun, enn minn líkami. Þessvegna rídur þad á nærsta litlu, hvørt eg lifi sokkinn í sátœkt edur audlegd, medan eg á ad dvelja minn skammvinna æfiára tíma í þessari veraldu; hvørt eg er haldur í hávegum edur fyrirlitningu af mínum medmanneskjum; hvørt kroppur minn er sjúkur edur heilbrigdur, fullur armædu edur eptirlætis. O, þetta er vissuliga þad sem minst ardur'! Daudinn kemur þá og þegar, og endar allt, bædi sorg og gledi lífs þessa; og — hvørsu nálægur kann hann ecki ad vera? Hvad veit eg, nema nærsti dagur, nærsta stund, já nærsta augnablik verdi mitt hid sídarsta? og — hvørnig fer þá um mína ódaudligu sálu? Þó eg á daudans augnabliki kallad gjæti alla veraldina mína eign, hvada gagn hefdi eg af því? hvørja hughreysti gegn daudanum kynni þad ad gjøra mér? Ney; annad, annad er þad sem mér rídur mest á. Þad nefniliga, hvørt sála mín verdur ad eilífu farsæl edur vesæl, hvørt heldur hún vera sær í samfelagskap eingla og þeirra algjørliga rettlátu kríngum Guds hástól, edur hún verdur dæmd til eilífs óps og veins og tannagnístrs, med djöflinum og fordæmdum øndum í helvíti, hvar «þeirra ormur

deyr ecki og eldur slokuar ecki." O, þetta er vissuliga það mikilvægasta ransóknar efni fyrir mig, hvörju eg ætti aldrei að gleyma. Að «umflya þá tilkomandi reiði" og gjöra sjálfan sig fullvissan um arfskipti með þeim heilögu í ljósinu, þetta ætti að vera mín allrastærsta umsorgan og áhyggja. En — mun því þá svo háttað vera fyrir mér? um hvörn heiminn hugsa eg optar og framar, þennan nálæga edur hinn ókomna? Hvað er það, sem eg er mest hugsjúkur um? Leita eg ecki tíðast eptir því, hvað eg skuli eta og drecka, og með hvörju eg skuli klæðast? En hve sjaldan framfæri eg af alvöru þá spurníngu: Hvað skal eg gjöra, svo eg sáluhólpinn verði? — Hafi eg nú ecki meiri áhyggju fyrir sálu minni enn líkama, þá er sannarliga mitt ástand vondt, og sá háski, sem mér búinn er, hræðiligur! O, þér, minir bræður! sem þetta heyrið edur lesið, uppstíga nú ecki þvílíkir sannfærandi þánkar í ydar hugskoti? o, látið þá uppstíga, og það alvarliga! Látið sálu ydar finna til sinna eigin nauða, og kenna í brjósti um sjálfa sig! O, látið hana hörfva sér niður í þvílíka sjálfsskodun! Þeinkið um daudann, dóminn og eilífdina! þeinkið um þann stóra mismun, sem verdur á kjörum mannanna í eilífdinni! hvörsu sumir (seigir ritníngin) muni æpa af ofraun qvalanna í eilífum eldi, en sumir skína sem sól í ríki þeirra födurs. O, bidjið Gud að vekja ydar sofandi samvitskur,

og láta einn lífsanda sveima frá sínu heilaga augliti, yfir ydar andliga daudu hjörtu! Já, látum oss hvör med ødrum sameiginliga af insta grunni bidja: O, Gud! snúdú øllum þeim, sem villtir eru, á rettan veg! sundurknosadú þaug steinhørdu hjørtu þeirra forherdtu syndara! Láttú samvitskum þeirra svída, og sálum þeirra ofbjóda, sá háski sem yfir þeim vofir Lát þá vakna til alvarligrar áhyggiusemi fyrir sínum ódaudligu sálum, svo þeir flýti sér ad frelsa þær, ádur enn sá stóri og óttaligi dagur daudans og dómsins yfir þá fellur! bænheyr þad fyrir þinnar miskunar sakir! Amen!

## 2 Hugvekja.

Syndin er yfirtrodsla løgmálsins, seigir Jóhannes postuli í síns fyrra sendibrefs 3a capit. Hvad getur einum syndara naudsyniligra verid ad ransaka, enn hvad syndin sé? Er ecki syndin þad stærsta illt af øllu illu, sem til er? Er hún ecki þad, sem ollad hefur því, ad miklum parti eingla, og manna, hefur til helvítis steipt verid, og enn nú er ad draga fjølda manna þángad? — Þetta eina sannkallada illa lærum vér hvørgi betur ad þeckja, enn af Guds ordi; og sá sem ecki ydugliga ransakar Guds ord í þeim tilgángi, hann er í illu, já í óttaliga illu ástandi. Syndin heldur hønum faungudum í sínum snørum, og sáluhjálp hans er í vedi. O, lyptum því hjørtum vorum til Guds, og seigjum af alvøru: Drottinn kenn þú

mér ad þeckja syndir mínar! Lát ei þennan bar-vœna siúkdóm, vera dulinn fyrir siálfum mér, eda mig dofinn og tilfinníngarlausan undir hønum!

Syndin er yfirtrodsla løgmálsins, seigir Jóhannes. En hvørs løgmáls þá? Løg-máls þess allrahærsta og heilagasta Guds; hans, sem hótad hefur eilífu banni øllum þeim, sem þad yfirtroda. Er mér ecki þetta hans heilaga løgmál kunnugt? O jú! því þess summa er innifalin í þeim 10 Guds bodordum. O, get eg þá þeinkt til þessara hans heiløgu boderda, get eg lesid þaug fram, nema med skjálfandi hjarta og titrandi røddu, þegar eg hugsa til þess, ad eg hefi þaug eitt sem øll yfirtrodid. Máské eg finni mig ecki útvortis stórsyndir móti þeim drýgt hafa! Hvad um þad? veit eg ecki, ad eg allteins get brotid þaug, med þaunkum og girndum, sem med ordum og verkum? Skal eg ecki gjæta þess, ad løgmálid er andligt, svo þad lítur eingu sídur til þeirra synda, sem and-inn edur sálin í mér drýgir, med sínum hugsunum og áformi, enn líkaminn med sínum limum. Já, hvør einn hiegómligur þánki, hvør ein óheilsg girnd, hvør ein óreglulig gedshræring er Guds løgmáls yfirtrodsla; ja, »af hvørju ónytju ordi, sem eg tala, hlýt eg reikníng ad standa á dómsins deigi.« O, þann skélfiliga dag! þegar Gud, sá sem hjørtun ransakar, dœma mun alla þánka hjarta vors, sem ádur leyndir vóru. O, hvørsu margar hiegómligar og vondar hugsanir hafa streymt igegnum sálu.

mína, alla mína lífstíð, og fyrir eina og sérhverja þessara er eg fordæmíngar sekur fyrir Guði. Hversu mörg fánýt orð, að ótöldum öðrum hneigslanligri, hefi eg á hverjum degi talað, og þó aldrei látið mér til hugar koma, að eg af þeim öllum hlyti reiknísg að standa. Eða, hvenær hefur það vonda, sem eg, með þaunkum og orðum, drýgt hefi, útpressað af munni mínum og hjarta, það ángurfulla ydrunarhróp: "Guð vertú mér syndugum líknsamur!" En framar að seigja, hefi eg hugleidt að það eins synd sé, já fordæmanlig synd, móti Guðs lögmáli, að vanrækja það góða, sem það býður manni að yðka, með hugrenníngum, orðum og verkum, eins og að gjöra það sem það bannar; að skortur kjærleikans til Guðs og náúngans, er, að sínu leiti, eins synd, sem viðbjóður og hatur til náúngans. O, hvað skelfiliga stór er þá mín synda summa fyrir Guðs augliti, og til hversu óbæriligs straffs hefi eg af hans réttlæti unnið? Svo margar syndir, sem eg drýgt hefi, svo margsinnum hefi eg unnið til helvítis og fordæmíngar. Hér á ofan, þó eg ástundum játað hafi syndir mínar móti Guði, og tekið kannské orð þess fortapaða sonar mér í munn og sagt: «Faðir, eg hefi syndgað í himininn og fyrir þér!" hvað hefi eg þá með þessu annað gjört, enn að gabba þann heilaga, þegar hjartað hefur ecki játníngunni fylgt, og syndin eins drottnað yfir mér, sem áður. Æ nú vil eg þá hrópa til þín minn Guð af allri alvöru; eg bið þig og sárbæni:

opnadú augu minnar samvitsku, svo eg sjái med hrædslu stærd, fiølda og vidurstygd synda minna. Slá þú á þann harda klett hjarta míns, med sprota þíns heilaga løgmáls, svo þad sundurknosist til alvarligs ángurs út af mínum misgjørdum. O, gef ad eg geti grátid af hjarta syndir mínar med Davíd, Manasse og þeirri bersyndugu, og láttu mig sídan finna hugsvølun þinnar fyrirgefandi nádar, eins og þessa. Veit mér ad æpa út af mínum syndum her í lífi, med sannri ydrun, svo eg ecki eilífliga þurfi ad veina og ylfra, undir þeirra straffi, í ødrum heimi! Bænheyr mig, Drottinn, søkum þinnar ómæliligu miskunar! Amen!

### 3. Hugvekja.

Allir hafa syndgad og hafa skort á hrósun þeirri, sem hjá Gudi gildir, seigir postulinn Paulus í pist. til Róm. 3 capit.

Í þessum ordum tekur postulinn eingan undan; allir seigir hann; þarfyrir bædi eg og þú, sem þetta les edur heyrir, vid høfum syndgad; þad er, vid høfum brotid løgmáls Guds; því ritníngin seigir: þar er einginn réttlátur og ecki einn (Róm. 3., 10.). Meiníngin er: þar finst eínginn, sem haldid hefur Guds løgmál. Vér høfum yfirtrodid eitt og serhvørt bodord hans sídaløgmáls, annadhvørt med verkum, ordum edur vondum hugrenníngum. Skyldan er stór, en sekin sønn. Látum oss þá athuga þvílíkt ástand vort, og

alvarliga bidja Gud, at upplýsa vor hugskot, svo vér þad rettiliga þeckt fáum. Tökum því Guds lögmál í hönd og lesum þaug, og sjáum hvörsu vér höfum eitt og sérhvört þeirra yfirtrödid. Þad fyrsta bodord höfum vér brotid, med því vér treyst höfum á adra hluti, og elskad þá meira enn Gud, því lögmál Guds seigir: „Þú skalt elska Drottinn Gud þinn af öllu hjarta þínu!" (Matth. 22, 37) En hvörsu lángt er frá, ad vér höfum þetta gjörðt; hvörsu opt höfum vér elskad skepnurnar meira enn skaparann, treyst uppá menninna framar enn Gud, haft meira eptirlæti af ad þeinkja um jardneska hluti enn himneska, og framar leitad vorrar ánægju, já opt syndugrar ánægju, enn Guds dýrdar. Eptir þessu hefur vor Guds dýrdkan farid; hvörsu sjaldan hefur hún skéd, eins og hún ské á, í anda og sannleika, en í þess stad verid eintóm útvortis ceremonía. Hvílíkur skortur hefur hjá oss verid á þeirri alvarligu gaumgjæfni, þeirri innvortis lotníngu, og þeirri hjartanligu andagt, sem sannarlig Guds tilbeidsla útkrefur? Og — þó vitum vér, ad vor Gud er einn vandlátur Gud! Vid þad annad bodord Guds mun vor sök ei minni vera. Eda viljum vér meina, ad vér höfum haldid þad, ef vér eckí höfum gjört oss seka med blóti og munneidum? fjærri því! Eda höfum vér aldrei, midt í því vér höfum heyrdt edur lesid Guds ord, lidid ad Guds heilaga nafn geingi út af vörum vorum, án þess ad finna til einna

audmjúkrar og óttafullrar blygdunar fyrir hans hátign; já, hversu opt höfum vér haft Guds ord um hönd og lesid þad hugsunarlaust, og þetta er þó vissuliga ad leggja Guds nafn vid hiegóma; en þá sem þad gjöra, vill Gud einganveiginn saklausa halda. Sama er ad segja um hald vort á hvíldardeigi Drottins, eptir því þridia bodordi. Eda getum vér sagt, ad vér útendt höfum serhvern Drottins dag, med þvílíkum útvortis æfíngum, sem Gudi máttu mest til dýrdar verda? Edur þó vér hefdum þad útvortis gjördt, hefur þad þá skéd alltíd med þvílíkri innvortis hjartans audmýkt, ad lögmál Guds, eptir sínum andliga skilníngi, hafi ekkert ad skulda oss fyrir í þaunkun, ordum og athöfnum? O syndarar! leggjum hönd á munn vorn, og játum oss seka ad vera! Ef vér á sama hátt gaungum gégnum þá adra bodorda töbluna, mun vor sök Gudi á móti sýnast sig skelfiliga stóra. Eda — vil eg spyria þig, kjæri vinur: „hefur þú á öllum tímum elskad náúngann, eins og sjálfan þig? Hefur þú alltíd breitt vid alla menn, eins og þú vildir þeir skyldu vid þig breita?" Hefurdú aldrei í hinu minsta gjört þig sekan í óhlýdni vid þína foreldra edur yfirbodara móti því fjórda bodordi? Veistú ekki ad serhver orsakalaus reidi og hatursneisti, sem upptendrast í hjarta þínu, er virkiligt mord og manndráp fyrir Gudi, móti því fimta bodordi? (Matth. 5, 22.) Ad serhver ósierlig girnd er saurlífi og hórdómur gégn því sjetta?

(Matth. 5, 28) Ad öll leyniilig prettvísi í skiptum vid náúngann, já, öll vanrækt ad veita einum fátækum serhvörja þá adstod, sem í þínu valdi stendur, er þjófnadur, í tráss vid þad sjöunda bodord? Ad serhvör kjærleikslaus þánki til náúngans, er sem falskur vitnisburdur, gégn því áttunda; og serhvör til ágirndar lútandi ósk, er yfirtrodsla þess níunda og tíunda bodords? Af þessu sjáum vér berliga, ad vissuliga hafa allir syndgad, med því ad gjöra þad sem lögmálid bannar, en vanrækja hitt, sem þad skipar. Sökum þessa, hefur hvör og einn orsök til ad gánga í reikníng vid sjálfan sig, og spyrja med fullum áhuga: hvad hefi eg gjördt og ógjördt látid? Eg veit allir hafa syndgad, og eg þá líka svo. En, hvílíkt er þá mitt ástand? Æ sannarliga eitt stand ofurseldt synd og hörmúngu! En hvarfyrir hefi eg þá ecki fundid til þessa med ángri og ótta fyrir Guds augliti, fyrr enn nú? Hvad veldur því, ad eg hefi getad róligur verid, og vitad mig þó sekan fyrir Gudi? já, sekan eilífs dauda og fordæmíngar! Orsökin er, syndin hefur blindad míns augu, og byrgt fyrir mér ljósid og sannleikann. O Gud, væg þú mér! lát mig ecki gjalda míns hrædiliga hyrduleysis, ad hugsa um þitt heilaga lögmál, og hvörsu eg hefi þad bædi vitandi og óvitandi, leyndt og ljóst yfirtrodid! — Yfirgéfdu mig ecki, Drottinn minn! í fráleidt edur forherdt sinni, heldur géf mér eina lifandi tilfinníngu minna banvænu synda sára, svo eg í tíma taki

ad vera mér úti um dugliga lækníngu við þeim; já, gef mer vilja til að leita hennar, lucku til að finna hana, krapta til að brúka hana og trúlyndi til að behalda henni. Bænheyr mig vegna þíns føðurliga kjærleika til þinna fráviltu barna! Amen!

## 4 Hugvekja.

Bølvaður sé einn og sérhvør, sem ei heldur það sem skrifað er í løgmáls bókinni, svo hann gjøri þar eptir! Þessi orð framfærir postulinn Paulus í pist. til Galatas 3 capit. samhljóðandi því sem Móses skrifaði í sinnar 5 bók 27 cap. — O, hvørsu skélfiligt orð er þetta orð bølvaður? og það sem yfir tekur, bølvaður eður bannfærður af sjálfum Guði! Hvað þýðir það? Bannfæríng Guðs, þýðir auglýsíngu hans hegnandi rettlætis, móti syndinni og syndurunum, sem ritníngin kallar reiði Guðs, en «hvør kann að standa fyrir hans augliti, nær hann reiður er?" seigir David (ps. 46, 4.) En máské allir eigi ecki þessa bannfæríngu skilið af Guði; máské þessi bølvan heyri ecki øllum til? Jú vissuliga heyrir hún øllum til, einum og serhvørjum, hvørt heldur úngum eður gømlum, ríkum eður fátækum, lærðum eður ólærðum, já, hvørjum einum, sem ecki áfram heldur, á serhvørju augnabliki lífs síns, og það án alls afláts, yfirsjónar og vansa, í øllum hlutum, smærri og stærri, í øllum hugrenníngum, orðum og verkum, að fremja og fullkomna,

Hvad sem heldst G. os lögmál útkrefur, og undir eins geymir sjálfan sig algjörliga hreinan og frían frá öllu því sem lögmálid fordæmir, heimugliga sem opinberliga. Því í þessu tilliti hlýtur lögmálid ad skiljast eptir þess andligu og hátignarfylstu merkíngu. Allir þeir sem ecki þetta gjöra, eru í sannleica bölvadir, eptir Guds lögmáls dómi; já, og þó mannesjan ecki drýgdi nema eina einustu synd móti því; því Jacob postuli seigir: „þó einhvör heldi allt lögmálid, en vrdi brotligur í einu atridi, hann sami er sekur vid allt lögmálid" (Jac. 2, 10.) O, látum oss nú, mínir samsyndarar! hugleida, hvört þar verid hefur nockur sá einn dagur, ein stund, eitt augnablik, á hvörju vor hegdan hafi ad öllu leiti verid í Guds augliti þvílík, sem hans lögmál heimtar. Nú er banni lyst í lögmálinu yfir serhvörn yfirtrodslumann, fyrir serhvörja eina yfirtrodslu; ecki einúngis fyrir gudlast, mord, hórdóm og þvílíka stórglæpi móti lögmálinu, heldur ogsvo fyrir serhvörn syndugan þánka, fyrir serhvört syndugt augnablik, á hvörju breytur hefur fyrir oss ordid á, ad "elska Drottinn vorn Gud af öllu hjarta, allri sálu og öllum kröptum." O, hvörsu margföldum, já þúsundföldum, bannfæríngum hefur þá Guds lögmál lýst yfir þér og mér! Þad hefur opinberad reidi Guds móti oss, ár eptir ár, vegna þess vér, ár eptir ár, höfum syndgad Gudi ámóti. Sé nú þessum hlutum svoleidis varid, hvör getur

þá án samvitsku-skelfíngar hugsad útí þá? Ad vita sig bannfærdan edur bölvadan af Gudi sínum skapara, og þad í gegnum alla eilífd, mætti jafnvel sundurmola eitt steinhjarta. En ad þetta sé þó óræk sannleikur, vottar heilög ritníng berliga. Edur getur nockur sannad þad gagnstæda út af henni? En hvílíka þánka skal þá þessi óttaligi sannleikur uppvekja hjá einum syndara? Vissuliga má hann þeinkja svoleidis: sé þad satt, ad serhvör einn syndari sé bölvadur fyrir serhvörja synd, sem hann drygt hefur — o, hvörsu þungur bölvunardómur má þá yfir mér liggja, sem aldrei hefi gjördt annad alla mína æfi, enn ad syndga móti mínum Gudi og skapara? Þad er satt á mig, ad eg aldrei hefi gjördt mér samvitsku af mínum vondu þaunkum, ordum og verkum, ískum vyrdíngar edur ótta fyrir Gudi, aldrei æft eitt skylduverk, edur haldid mér fra einni synd, af þeim eiginliga retta tilgángi, nefniliga elskunni til Guds. Hvad hefur mitt gjörvalla lífferni annad verid, enn óaflátanligt framhald í æfíngu þess vonda? og, hvílíkt er þá ástand mitt? hvílíkt — nema fullkomid fordæmíngarstand, eptir Guds lögmáli? En, ó hvörsu óseigjanliga skelfiligt er þad í sjálfu ser? og, ad eg skuli geta lifad eina stund róligur, og vita mig þó liggja undir bannfæríngu þess lifanda Guds; ad eg skuli geta lagt mig til svefns ad qvöldi, eda stígid af sæng ad morgni, án ytrustu örvæntíngar og hræðslu, þar eg veit ad formæl-

ing Guds blýtur ad steipa einum syndara til helvítis, ad eg skuli, segi eg, þetta geta, er hid stærsta merki þess, hvílíkt myrkur sé í mínu hugskoti, og herdsla í mínu hjarta. O Gud! snúdú mér aumum syndara, svo verdur mér snúid! Vek þú mig, med þrumu þíns heilaga lögmáls, af mínum synda svefni, svo eg sjái, hvílíkur háski mér búinn er, nema eg umvendist brádliga, þar eg veit ecki nema þad og þad augnablik verdi mitt hid sídarsta, og daudinn stefni mer óumvendtum fyrir þinn dómstól, en dómurinn úrskurdi mig til þeirrar díblissu «hvadan eingin endurlausn er ad eilífu." O, frelsa þú mig, Gud minn skapari, medan frelsunar tíminn yfirstendur, því annars verd eg aldrei frelsadur! Bænheyr þad, sökum þíns kjærleika til allra þinna skepna, en einkum til syndugra Adams barna! Amen!

## 5 Hugvekja.

Verdlaun syndarinnar er daudinn, seigir Paulus í pist. til Rómv. 6 cap. Þetta flýtur af því sem Jóhannes seigir: ad syndin sé lögmálsins yfirtrodsla. En hvad er lögmálid? Þad er sú heilaga regla, sem hinn eilífi Gud sett hefur skynsemdarfullum verum ad breita eptir, og þessvegna kallast sidferdis lögmál. Allt þad sem móti því strídir, er synd, á hvorn hátt sem hún drýgd er, hvört heldur med hugrenníngum, ordum edur verkum, móti Gudi edur náúnganum,

med vanrækt þess góda, edur gjörníngi þess vonda. En, hvílík seigir þá andi Guds, ad verdi launin fyrir ydju syndarinnar? Daudinn, seigir hann, og þad í þess ords stertustu og fullkomnustu merkíngu. En, hvad er þá daudinn? Líkamligur daudi er adskilnadur líkama og sálar. Til verkana þessa dauda finnum vér, sem syndarar, allareidu fyrirfram, allt í frá vorri fædíngarstundu; því allar þær eymdir og sjúkdómar, sem vér finnum til í vorum líkama, eru forbodar daudans, og svo sem herlid hans, er hann á undan sér sendir; uns hann loksins sjálfur brýst fram og gjörir oss ad sínu fullkomnu herfángi. Svo er þá allt þetta vort jardneska líf, ekkert annad, enn sem adfarir daudans, og vér líka sem deyum á hvörjum deigi. Og þessi daudi líkamans, edur hans adskilnadur frá sálunni, mun olla því, ad vér aptur ad moldu verdum, af hvörri vér í ondverdu teknir vórum. En ordid daudi, sem brúkast í vorum texta, þýdir þó nockud meira enn þetta. Þad þýdir dauda sálarinnar; og hvad er hann? Hann er, á vissan hátt, svo miklu skélfiligri enn daudi líkamans, sem sálin, eptir sínu edli, er mikilvægari enn kroppurinn. Já, eins og líkamligur daudi er í því innifalinn, ad sálin skilst vid líkamann, svo er sálarinnar daudi fólginn í því, ad sálinn skilst frá Gudi, hvar ad er hennar líf og farsæld. Her af flýtur, ad slíkur daudi er þvílíkt stand, í hvörju syndin er manni

Sumsfhaulig, af því ha..n er hennar þræll og fángi; hvar á eptir, fyrr edur sídar, fylgir sú samvitska, er sjálfa sig qvelur og pínir, og sprettur af því, ad madur tapad hefur Guds vináttu, og ásamt med henni, öllum þeim blessunum, er hún med ser færir, þar Gud er, á sinn hátt, þad sama fyrir sálina, sem sálin er fyrir líkamann. Þó er þad adgjætandi, ad andligur daudi, edur daudi sálarinnar, er ecki fólginn í því, ad hún tapi sinni náttúrligri tilfinníngu, eins og líkaminn, þegar hann deyr; en tilfinníng sálarinnar er samvitskan. Heldur er sálarinnar daudi innifalinn í missir Guds mildar og nádar; því í hans nád er lífid falid, seigir Davíd (ps. 30, 6.) og þessvegna er þá daudinn falinn í hans reidi. Sertú nú, mín samsyndúga manneskja, ecki andliga lifgud í sálu þinni, fyrir Guds umvendandi nádarkrapt, þá er ástand þitt svo hörmuligt, sem eg útmálad hefi; þú liggur þá vissuliga daudur í yfirtrodslum og syndum, og þad allt eins, þó líf þíns líkama, sé aldrei svo farsælt og fjörmikid; og nema þú endurlífgadur verdir, fyrir anda endurfædíngarinnar, ádur þú víkur burt úr þessu jardneska lífi, blýtur þitt ádursagda hörmuliga ástand ad vara eilífliga. Þad sannast af því, ad daudi sá, sem talast um í vorum texta, er mótsettur því eilífa lífi, sem talad er um í þeim ordum, sem hönum strags á eptir fylgja. Og — Gud komi til! ef verkan þess andliga dauda er hörm-

úng og eymd, jafnvel strags í þessu lífi (svo sem eingin reynsla sérhverrar manneskju vitnar, vilji hún sannleikann játa), ó hvílík mun þá verkan hans og afleidsla verda í eptirkomandi verøldn? Vér lesum í ritníngunni um «einn orm, sem aldrei deyr", hver ed nagar og bítur þá sárpíndu samvitsku; um «eld, sem aldrei sloknar", til ad pína bædi líkama og sálu í helvíti; um «óp, vein og tannagnístrun", sem allt eru bílæti uppá qvalir fordæmdra; og, þad sem yfirtekur, ad þessar qvalir (seigir ritníngin), verliga og fortakslaust, vara skuli eilífliga. Vilji nú holdlig sérvitska seigja: med þessum hætti verdur einginn jøfnudur milli syndarinnar og straffsins. Er ecki syndin stundlig, en straffid eilíft? Partil svarast best med þessum ritníngarinnar ordum: «Sé Gud sannordur, en allir menn ligarar!" Nú seigir hann: «ad daudin — já sá eilífi daudi — sé syndarinnar verdlaun." Og, þetta er fullnóg røksemd! Hans sannleikur skuldbindur hann eins vel til, ad uppfylla sínar hótanir, sem sín fyrirheit. O, látum oss þá flýa þá tilkomandi reidi! «Því hver af oss treystir sér ad búa í þeim fortærandi eldi, já í einu eilífliga brennanda báli?" Æ, snúum oss þá í Guds nafni, medan tími og tækifæri gèfst, til ad umflýa býsr þessi! Drøgum ecki ydrun vora undan einu augnabliki leingur, því hver veit nær umskipti verda á tíma og eilífd fyrir

ſérhvørjum af oſs? Nú er ſá þægiligi tími, nú er dagur hjálpræðiſins; nú frambýður Guð oſs ſýna náð og miſſkunſemi; en ef vér hana nú ecki þyggjum, edur þyggjum ecki rettiliga, verdur dyrum nádarinnar ad eilífu fyrir oſs apturlæſt. O Gud! uppvek oſs alla, fyrir krapt þíns orðs og anda, af þeim andliga ýdrunarleyſis dauda, ſvo ſá eilífi fordæmíngar daudi fái einga makt yfir oſs! Bænheyr þad, lifandi Gud, ſökum þinnar eilífu ſöðurligu miſſkunar! Amen!

## 6 Hugvekja.

**Hvad ſkal eg gjøra, ſvo eg hólpinn verdi?** ſpurdi ſá uppvakti fángavaktari í Philippis fordum, um hvad vér leſum i gjørn. bók 16 cap. Sømu ſpurníngu framſetur hvør heldſt ſú manneſkja, hvørrar ſamviſſka uppvaknar rettiliga til ýdrunar. En þann kalla eg rettiliga uppvaknadan, ſem fyrſt þeckir hvad ſyndin er, og þarnæſt, med ſárú, ángri og ótta fyrir Gudi, finnur til þeſs, ad hann ſjálfur ſyndari ſé, ſá, þvílíkur einn ſyndari, ſem ſé undir Guds formælíngu, og hvør ed ſtandi í hættu fyrir því, ad hrapa í helvítis eld. Nú ſpyr eg þig, mín kjæra medmanneſkja! eg ſpyr þig: ertú þvílíkur einn uppvakinn ſyndari, edur ecki? Ef ecki er ſvo, þá ertú óhæfur, ecki einaſta til ad ødlaſt, heldur og til ad leita ſáluhjálpar. Og, æ því midur, allir menn af náttúrunni eru andligum ſvefni haldnir,

svo þeir ekkert finna til sinnar eigin sálar hættu; og í þessu ástandi halda þeir áfram að vera, uns þeir, ef það annars nokkurntíma skéður, verda, fyrir orð og anda Guðs, uppvaktir af sínum holdliga andvaraleysis svefni. Allt þángað til það skéður, boða þeir sjálfum sér frið, enda þó þeir alls eingan frið hafi; því Guð seigir, fyrir spámannsins Esajæ munn (Es. 48, 22), með berum orðum: „þeir óguðligu hafa eingan frið." En svoleiðis líta þeir þó áfram einn dag eptir annan, og keppast við að halda sér frá umhugsun dauðans, dómsins og eilífðarinnar, svo hún gjöri þá ekki óróliga; aldrei lesa þeir ritnínguna, með einlægri girnd til að þeckja, í hvörju ástandi sín sála sé, og aldrei hrópa þeir til Guðs af hjartansgrunni, með tollheimtumanninum, seigjandi: „Guð vertú mér syndaranum liknsamur!" En það er þó eitt fullkomið merki tilþess, að ein manneskja sé „fráleit því lífi, sem er af Gudi, vegna þeirrar blindni, sem í henni býr", þegar hún framdregur líf sitt, án þess ydugliga, með heitri bæn, að hrópa til Guðs miskunar, út af tilfinníngu synda sinna og samvitsku fordæmíngar; já hún er í slíku ástandi, eins lángt frá Gudi og hans náð, sem þó hún lifdi því versta og glæpafyllsta lífערni. Öll hennar útvortis siðsemi dugir henni slétt eckert, án þvílíks sinnislags. En þegar Gudi þóknast að innræta sam-

vitsku manneskjunnar eina sannfærandi tilfinníngu synda sinna, móti hans lögmáli, þá vaknar hún fyrst upp, líka sem af draumi. Hún sjer þá það, sem hún aldrei ádur, nema svo sem í tilfinníngarlausu svefnmóki, þeckt hafdi, nefniliga hvörsu „það er einn vondur og beiskur hlutur, ad syndga á móti Gudi." Nú tekur slík manneskja til ad lesa ritnínguna, med öllu ödru hugarfari, enn ádur; ádur las hún hana (ef hún hana annars nockurntíma las), sem eina fródleiksríka sagnabók, med dofinni og ófnúsadri samvitsku; hún hvörki skelfdist af hennar hótunum frá ad ydka syndina, né uppvörfadist af hennar fyrirheitum, til ad leita nádarinnar. En nær andi Guds hefur uppvakid samvitskuna, verdur lösturinn allt ödruvísi. Til dæmis: þá madur les þessi ord Davíds: „þeir ógudligu skulu til helvítis drifnir verda, og allt það fólk sem Gudi gleymir" (ps. 9, 18.), uppfyllist hjarta hans af hrædslu og titrun. Því hann þeckir þá og vidurkennir, ad hann er sjálfur sá sami, sem Gudi gleymt hefur og syndgad móti hönum hræddiliga; og sökum þess hann er sannfærdur um „ad verdlaun syndarinnar er daudinn", þá tekur hann med alvöru um ad hugsa: hvörsu hann fái umflúid helvítiska fordæmíngu. Þvílíkur madur er þessvegna uppfylltur af sterkustu alvörugefni, nær hann framsetur þetta spursmál: „hvad skal eg tilgjöra, svo eg hólpinn verdi?" Hann finnur nú, hvörsu allt

á því rídur, hvørnig kjør sálar finnar verdi í eilífdinni. Þad er þad eina, sem hønum nú alvarliga á hjarta liggur. Heimur þeßi med øllu hans eptirlæti, audæfum og mannvyrdíngum verdur sem hiegómi og fisvyrdi í hans augum, þarfyrir getur slíkt einga huggun veitt hans ángurbitna hjarta, edur læknad hans særdu samvitsku. Nú fyrst tekur hann ad geta bedid Gud af alvøru um andliga hluti; hans bæn verdur nú eitt sannarligt hjartans túngumál; ólík því sem hún ádur var, eitt meiníngarlaust munnflapur og hræsnis þjónusta. Tilfinníng þeßs háska, í hvørjum sála hans, vegna syndanna, stødd er, knýr hann til ad koma aptur og aptur, med brennandi bæn, fram fyrir thrón nádarinnar. Nú les hann Guds ord, sem dóms úrskurd þeßs eilífa sannleika, og finnur í hvørri línu krapt þeßs, fyrir sálu sína, ýmist henni til sannfæríngar edur huggunar. Hugleid nú alt þetta, minn kjæri samsyndari! og leif mér enn aptur ad spyrja þig: hefur nú þeßi ádursagda fángavaktara spurníng, „hvad skal eg gjøra, svo eg hólpinn verdi?" hefur hún, edur ecki, inntekid hjarta þitt, og uppvakid hjá þér hugsýki út af velferd þinni? Sé þad ecki, þá gjæt ad, í Guds nafni, hvørn háska þú ert vidridinn! Sála þín er í vedi! já, í vedi um alla eilífd! Hrópadu þeßvegna til Guds miskunar, og seig af hjarta: „Snúdu mér Drottinn, svo verdur mér snúid!" Læknadu mig, svo

verd eg heilbrigdur! O, láttú mig ecki deya í mínum syndum, heldur veit mér ad gjøra í sínna sanna ydrun fyrir syndir mínar, svo eg eilífliga hólpinn verdi! Veit mér þad af þinni nád! Amen!

## 7 Hugvekja.

Gjørid ydrun og trúid evangelío! Svoleidis hljódadi texti sá, sem Jesús vor Frelsari brúkadi til allra sinna kenninga, svo sem vér lesum hjá Marc. í 1 cap. En hvørjir eru þad, sem Jesús, med þessum ordum, talar til? sannarliga allir vesælir og fordæmíngarverdir syndarar; rétt þvílíkir, sem vid erum, minn kjæri bródir og systir? Í hvørju er þá innifalin ydran sú, sem hann áminnir til? Hún er eitt verk hans anda, í manneskjunnar hjarta, med hvørju hann til vegar kemur, fyrst því-ískri innvortis tilfinníngu, þeirrar sektar og svívyrdíngar, sem í syndinni falin er, ad manneskjan sjálf fellur í forundrun yfir, ad Gud skuli ecki, hennar vegna, fyrir laungu vera búinn ad steypa sér til helvítis; þarnæst þvílíku hatri til syndarinnar, ad manneskjan tekur af alvøru ad fordast hana og flýa, sem sinn versta óvin; og loksins verkar hann þvílíkan ótta, fyrir afleidslu syndarinnar, sem gjørir manneskjuna áhyggjufulla, ad ødlast eina fullkomna frelsun frá henni, og þad sama alleinasta í krapti þess (eins og evangelíum kennir), sem Jesús Christur gjørdi og lidid hefur, fortapadra

syndara vegna. Svoleidis verdur einn ydrandi syndari í hjarta sínu sannfærdur um, ad syndin vinnur til straffs og refsíngar, og ad sjálfur hann, sem einn syndari, er makligur þvílíks straffs af Guds rettlæti; hann sjer, ad syndin hlýtur annadhvørt ad verda fyrirgéfin edur strøffud; ad manneskjan sjálf gétur ecki afrekad fridþægíngu fyrir einustu eina, sína allra minstu yfirsjón; hvørsvegna, ef hún frelsast skal, hlýtur þad ské út af einskjærri nád og miskun. Ein manneskja, sem af þessum þánkum er nú gagn-audmýkt ordin í hjarta sínu, hún er sú sem hæf er til ad taka rettiliga þeim fagnadar bodskap: ad þar sé einn endurlausnari til, "hvør ed kominn sé til ad leita þess sem topad er" (Matth. 16, 11.); og þetta hid sama er þad, sem kallast evangelíum; þad er gledítídindi syndasekum og fortøpudum heimi. Summa og inntak þess er þetta: ad «Jesús Christur kom í heiminn, til ad frelsa syndugar manneskjur" (1 Tim. 1, 15.) Hann dó til þess hann gjæti fullnægjugjørt fyrir þeirra syndir; og af því hann er Gud og madur í einni persónu, þá er hann máttugur til ad gjøra þá alla sáluhólpna, sem fyrir hann koma til Guds" (Ebr. 7, 26.) Hans blód, sem er Guds blóds (Gb. 20, 20.), þess er holdi klæddist, hafdi einn óendanligan verdugleika til ad bera, og var úthellt einúngis í þeim tilgángi, ad burttútaka og afmá syndina; svo þó ad þínar syndir, þú vesæli og

sjálfsfordæmdi syndari! séu fleiri ad tølu, enn hárin á høfdi þér, edur sandur vid sjáfarstrøndu, já, þó þær aldrei svo stórar og geistligar séu, edur, eins og ritníngin ad ordi kémst: «séu raudar sem purpuri", þá þarftú samt einganveiginn vonlaus um þeirra fyrirgefníngu ad vera. Þú skalt vita og trúa því fyrir víst: "ad blódid Jesú Christs hreinsar þig (edur hefur krapt til ad hreinsa þig) af øllum syndum" (1 Joh. 1, 7.) En viljir þú spyrja: hvørnig gét eg hluttakandi ordid í þessum gledíliga bodskap? hvørnig gét eg feingid hughreystíngu af þvílíkum fyrirheitum? Þér svarast einfaldliga med Jesú ordum: «trú þú evangelio!" Þad er, reiddu þig á þad, sem ord Guds seigir um Jesúm Christ, nefniliga: þad hann bædi sé fús og máttugur til ad frelsa syndarana! Ef þú aptur spyr=er þad ecki ofdyrfska fyrir mig, ad trúa því, ad Jesús Christur, Gud í mannligu holdi, sé kominn til ad frelsa svo argvítugan og ránglætisfullan syndara, sem eg er? þá svara eg: þad er aldeilis eingin ofdyrfska! því þad er «Guds bodord, ad vér trúum á nafn hans eingetins sonar Jesú Christs" (1 Joh. 3, 23.) Og þessvegna kann þad ecki nein ofdyrfska vera, ad gjøra þad, sem Gud hefur skipad, edur taka þad trúanligt, sem han í sínu ordi talad hefur. Ney, þar sem Gud sjálfur hefur svarid þad vid sitt guddómliga líf: «ad hann ecki vilji syndugs manns dauda, heldur ad hann snúi sér og ødlist eilíft líf." Og þar sem Jesús Christur hefur med svo mørgum

jarðteiknum sannað, að hann væri sendur af Guði: "til að leita að því sem tapað er" og «til að útgefa sitt líf til lausnargjalds fyrir mennina", þá er það aldeilis óyggjanligt, að hvar yðrun og trú ecki brestur á mannsins síðu, þar brestur ecki náð, fyrirgéfningu og sáluhjálp á Guðs síðu. Þarfyrir, minn samsyndugi bróðir! ef þú ert af syndum þínum sárliga ángurbitinn, svo þú ecki hefur frið í þínum beinum, fyrir lögmálsins ógnun, ó svo trúðu á Drottinn Jesúm, og reiddú þig fast uppá hans blóðugu pínu og dauða; álít hann sem eitt fórnfæríngaroffur fyrir syndir þínar, með hvört Guð er öldúngis ánægður, og krefur þig þessvegna fyrir einga þína synd framar, nær þú framber þetta offur, fyrir hans auglit, á reiðum höndum lifandi trúar. Já, Guð vill þá gleyma öllum þínum syndum, svo sem eingin þeirra hefði nockurntíma drýgð verið. Andvarpa þessvegna miðt í ángri synda þinna, og seig: Ó, himneski hjartans faðir! þó eg með syndum mínum, hafi þig alla mína lífdaga til reiði reitt; já, þó eg hafi svo margsinnum helvíti forskuldað, sem eg margar syndir drýgðar hefi, þá trúi eg þó, þú viljir mér þær fyrirgefa, vegna friðþægíngardauða þíns elskuliga sonar Jesú Christs, hvörn eg nú frambýð þér, sem eina fullnægju fórn fyrir syndir mínar. Hans blóð er blóð sáttmálans, þess sáttmála, að þú villt vera minn forlíktur Guð og faðir að eilífu. Þessu trúi eg, og þar uppá reiði eg mig í lífi og dauða! Amen!

8 Hugvekja.

Það er sannarligt orð og allrar viðtektarverdugt, að Jesús Christur er í heiminn kominn, synduga menn sáluhólpna að giøra, meðal hvørra eg er hinn stærsti; þannig kemst post. Paulus að orðum, í síns fyrra sendibrefs til Timoth. 1 cap. Og er í þessum postulans orðum innifalið høfuð-inntak og summa alls evangelii. En grundvelli þess og samheingi er svoleiðis háttað: Jesús Christur er sannur Guð, því ritníngin seigir, að hann skapað hafi himin og jørð, og allt hvað þar inni er, og að allt þetta viðhaldist fyrir hans kraþt og til hans dýrðar. (les þarum hjá Joh. 1 cap. frá 1. til 3 vers, Col. 1. 15—17. og Ebr. 1, 2. 3. 6. 10.) En þar sem vér manneskjurnar, sem erum einar af hans skepnum, høfðum brotið hans løgmál og giørt uppreist á móti hønum, hlaut hann, eptir sínu rettlæti að straffa oss, og snara oss í það díki, sem vellur af eldi og brennusteini. En — ó hans dásamliga og allra furðanligasta kiærleika! Þessi vor Guð opinberaðist í holdinu, og fæddist ein sonn manneskja í heim þennan. En, í hvørrjum tilgángi? svar: einúngis til þess að frelsa syndarana. — Hvørnig fór hann þá að koma þeirri frelsun til vegar? Með því að láta kvelja sig í þeirra stað, og deya þeirra vegna siálfur á einum krossi; «bar svo þeirra syndir á sínum líkama uppá trénu, og

þvodi þá, af þeim sømu, med sínn eigin blódi.“ Hvør sem trúir þessu, og reidir sig þar á, og ef sú trú fædir þá af sér elsku til Guds í Christo, og alvarliga vidleitni ad hlýda hans bodordum, hvør sá þetta gjørir, verdur sáluhólpinn, segir ritníngin. Þetta er nú hid sanna evangelíum, einn glediligur nádarbodskapur fyrir syndugt mannkyn! Nú rídur þá alleinasta á því fyrir mig og adra syndara, ad eg og þeir hafi þessa trú á Guds son, og ad sú sama trú, sé med sínu retta lífi og edli. Eg veit þad ad vísu, ad eg er einn syndari, og, sem því líkur, makligur eilífrar fyrirdæmíngar; en finn eg þá ogsvo til þess, ad eg ángrist þar út af? ángrast eg svo út af því, ad eg hati syndina? hata eg svo, syndina, ad eg flýi hana og fordist, sem minn versta óvin? Ekki er þó þetta nóg; er eg kominn ad fullri raun um þad í hjarta mínu, ad nema Christur frelsi mig, þá hljóti eg ad verda ein fortøpud sál ad eilífu? og kémur þess reynsla mér til, óaflátanliga, og af øllu hjarta, ad sárbæna Jesúm um þad, ad hann láti krapt sinnar fridþægíngar á mér hrína? Og leita eg svo alls míns rettlætis, allrar minnar huggunar og allrar minnar sáluhjálpar alleinasta, hjá hønum, vegna þess ad hann er minn frelsari og árnadar madur? Ef eg nú þetta gjøri, þá er mitt ástand sælt og blessad; en annars er eg undir løgmálsins bølvan og barn fordæmíngarinnar. O, Gud nádi! hvørsu margar athúgalausar manneskjur eru til, sem aldrei edur allt offjaldan hugsa

um þessa hluti af alvöru! Hverjir einga samvitsku gjöra sér af syndum sínum, heldur ana blindt afram í þeim yðrunarlaust! Hverjir einga sanna elsku hafa til Jesú fyrir það, sem hann gjörði og leið mannanna vegna! Hverjir annaðhvört treysti í blindni á sitt eigið réttlæti, ellegar svæfa samvitsku sína midt í verkum ránglætisins; þeirfyrri forsmá Jesú endurlausn, þeir síðari misbrúka hana. Og, eru beggja kostir hinir hörmuligustu! En, er eg nú nockuð af annarahvörra þessara flocki? Legg eg þá þennan sannleika: „Jesús Christur er í heiminn kominn syndugamenn sáluhólpna að gjöra“, legg eg hann af allri alúð uppá hjartað? Er öll mín von bygð á þessu óbrigðanliga sanna orði, að þó eg sé einn syndari, já, einn allrastærsti syndari, þá geti eg þó eingu að síður orðið frelsaður frá syndum og helvíti, ef eg með heitri og hreinni yðrun fyrir misgjörðir mínar, mæni mínum vonar- og trúar-augum á Jesúm Christ, og treysti á hann. O, að sá góði heilagi andi vyrdist að gjöra mig hæfiligan, til að horfa þannig lifandi trú, uppá Jesúm Christ! Þá veit eg fyrir víst, að eingin synd kynni mér og minni sálu að granda. Guðs lögmáls formælíng hefði þá eingan krapt yfir mér. O, hvað skyldi eg, einn vesæll og hjálparlaus syndari, tilgjöra, ef þar ecki væri einn Jesús til að frelsa mig? Hvað annað enn örvænta og deya í mínum syndum? En, lofaður veri Guð! Jesús er til; einn blessaður frel-

sari og fyrirbidjari. Og, fyrst hann er til, med hvílíkri hjartanligri girnd og gledi ætti eg þá, og allir minir samsyndarar, ad taka á móti hønum! Vissuliga, þessi Guds guddómliga gáfa er øllum ødrum hans gáfum þúsund dýrmætari. Burt med heimsins góts og audæfi. Jesús sé minn eigindómur! Burt med heimsins metord og vyrdíngar, Jesús sé minn heidur! Burt med heimsins sælgjæti og vellisti, Jesús sé mitt eptirlæti! Þessi eini eigindómur, heidur og eptirlæti, er þad, og ekkert annad, sem gjørt getur sálu mína eilífliga ríka, heidrada og farsæla. Þessi trú á Jesúm sé mitt fasta slot í lífinu, og mitt lífakkeri i daudanum! O, þú Jesú Christis heilagi andi! lát hana festa djúpar rætur í sálu minni, svo eg eilífliga hólpinn verdi! Amen!

## 9 Hugvekja.

**Hvørn þann, sem til mín kemur, þann vil eg einganveiginn útreka,** seigir vor elskuligi frelsari hjá Joh. í 6 cap. O, hvørsu óseigjanliga huggunarrík eru ord þessi, framsgeingin af munni þess allra dýrmætasta vinar sálna vorra! af þeim er audsjen hans umhyggjusemi fyrir því, ad taka fyrir øll þaug mótmæli, og þeim úr veigi ad ryma, sem olla kynnu efasemdar einni þeirri sálu, sem út af syndum sínum svo sorgbitinn er, ad hún valla þorir til hans ad koma; allrasídst med því trausti, sem evangelíum áskilur, nefniliga ad verda frelsud einúngis »af nádinni, fyrir

trú na" (Eph. 2, 8.) Og til þess ad slíkum sálum ei skuli hugur fallast, þá útmálar hann hjá Matth. 11, 28. mikid náttúrliga þeirra sinnislag og tilfinníngar, og býdur þeim sídan af sinni guddómligri mildi, med sætustu ordum, til sín ad koma, seigjandi á þennan hátt: «komid til mín allir þér sem erfidi drýgid, og þúnga erud þjádir, eg vil ydur endurnæra!" Ef þér erud mæddir og þreittir ordnir, undir þrældóms oki satans og veraldarinnar; ef þér erud þúnga þjádir af sök þeirri, sem liggur á samvitsku ydar, og ótta þeim, sem plágar ydar hjarta; ó sjáid til, hvörsu sá elskufulli endurlausnari stendur med útbreiddan sinn nádarfadm, móti ydur ad taka, þvi svo hljóda þaug nádarord, sem hans blessadi munnur taladi, og hvör þér strags heyrdud: «komid til mín — eg vil ydur endurnæra!" O, vitid fyrir sann, ad trúfastur er sá, sem því heitid hefur, og hann mun ydur víst ecki á tálar draga; hann vill sannliga ecki umbreita þeim ordum, sem útgeingin eru af hans vörum (Ps. 89, 34.) Gjörid því, í Guds nafni, tilraun til, og komid á hans fund! hann er máttugur og fús til ad frelsa ydur; eda hvarfyrir viljid þér um þad efast? Þér viljid máské seigja: eg er einn syndari; hvad skal mér á fund þess heilaga og rettláta? Vitid þér þá ecki, ad Jesú Christs einasta erendi í heiminn var ad hjálpa syndurum; einasta vegna syndara lifdi hann, leid hann og dó hann. Hann átti fyrst

ad verda frelsari syndaranna, ádur enn hann yrdi þeirra dómari. Þyggid þarfyrir hans fridþægíngar rettlæti, svo hann ei þurfi ad straffa ydur eptir sínu dómara rettlæti! Ef þér enn framar seigja viljid: eg hefi svo leingi affram haldid, móti honum ad stríða, og skúfad frá mér hans náð; eg hefi í mørg ár syndgad móti honum med uppreittri hendi! Eg svara: hvad um þad? Þér erud samt ecki útilucktir frá ad geta náð til hans eilífu miskunnar; ei heldur er ydar sjúkdómur svo banvænn, ad vitska og máttur þess stóra læknirs, sálnanna geti ecki rádid bót þar á. Ef þér ennnú viljid hér á móti bera og seigja: eg er ecki einn almenniligur syndari, eg er einn hrædiligur stórsyndari; eg svara: sømu játníngu gjørdi Paulus, ad hann kvadst vera einn „stærsti syndari" og samt huggar hann sig vid Guds náð í Christo, og seigir hún heyri sér til. Þess stærri syndarar, sem þér erud, þess stærri orsøk hefur Jesús til ad audsýna á ydur stærd og krapt sinnar fridþægíngar. Því setjid ydur fyrir sjónir: Jesú blód er „Guds blód" seigir ritníngin (Pg. 20, 28.), og fyrir þá skuld megnar þad ad „hreinsa ydur af øllum ydar syndum" (1 Joh. 1, 7.) Hans rettlæti er „Guds rettlæti" (Róm. 3, 22) og þessvegna er þad fullnægjandi til ad rettlæta jafnvel þann øgudligasta syndara. Svo ørvæntid þá ecki, mínir brædur! Jesús er einn almáttugur frelsari, sem elskadi svo sálir ydar, ad hann sjálfviljugliga gaf sig í daudan

fyrir þær, og vill þarfyrir, ad þær komi til sín í trúnni, til þess ad verda njótandi sinnar frelsunar; því tekur hann svo hjartanliga til orda: „hvørn þann sem til mín kemur vil eg einganveiginn frá mér reka.“ Hann hefur hervid eckert fortak, og tekur alls eingan syndara undan, ad eins ad syndarinn sjálfur vilji af alúd og beri sig, med ydrunninni, til hans ad koma; því „han vill ecki, ad nockur fortapist, heldur ad allir mættu komast til sannleikans vidurkenníngar, og verda sáluhólpnir“ (1 Tim. 2, 4.) En máské þér kynnud spyrja: þarf eg þá ecki neitt ad hreinsa hjarta mitt og endurbæta mitt líferni, ádurenn eg vogast til ad nálægjast Jesúm og koma á hans fund? Eg svara: ef þér ætlid ad bída þess, ad koma til Jesú, þángad til þess þér hafid þessa hreinsun edur betrun af eigin krapti framqvæmt, þá seigi eg ydur þad fyrir sann, ad þér ad øllu búnu munud þá deya í ydar syndum. Hann sjálfur hlýtur ad hjálpa ydur til þeirrar betrunar, sem þér talid um, og hann vill ogsvo í raun og sannleika gjøra þad, þegar þér ydrandi komid ad hans krossi, játid ángurbitnir syndir ydar, og treystid því ad þér, í hans blódi, fáid fulla fridþægíngu. Já, þér hljótid endiliga til hans ad koma, svo sem þér lítid út, hvørsu svívyrdiligir og fordæmíngarmakligir syndarar, sem þér vera kunnid, til þess ad hann þvoi ydur í sínu blódi, klædi ydur med sínu rettlæti, helgi ydur med sínum anda og gjøri ydur hæfiliga til sinnar dýrdar. Eda, hví

viljið þér undankœrast, að taka straffs á móti því, sem hann svo hjartans fúsliga vill gefa ydur, og það fyrir alls ekkert «án penínga og betalíngs» (Es. 55, 1.) Eða hvar getið þér annars staðar enn hjá honum, feingið fyrirgefníngu syndanna, krapta til heilags lífernis og rétt til himnaríkis arftöku? Það er hans eiginliga embætti, að veita ydur þetta; því til þess einúngis er hann í heiminn kominn, að taka á móti syndurunum (Lúc. 15, 11. 25.) og frelsa þá, og þessvegna hefur hann svo hátíðliga auglýst og auglýsa látið: «að hvörn þann syndara, sem til sín komi — hvörsu vondur og hardsvíradur, sem hann að undanförnu verið hafi — skuli hann einganveiginn frá ser útreka.” Komum þarfyrir, án undandráttar, með sannri ydrun og trú á fund, þessa mikla mannkynsins frelsara, og bidjum hann af öllu hjarta: Herra Jesú, læknadú mín banvænu synda sár, svo eg heilbrigdur verdi! gefdu mér þitt rettlæti, sem alleina fyrir Gudi gildir, svo eg í hans augliti stadist fái! já, géf mér þinn heilaga anda, sem stjórni mér og stýri á rettum veigi til eilífs lífs! Bænheyr mig, minn blessadi frelsari! Amen!

## 10 Hugvekja.

Með því vér erum rettlættir ordnir fyrir trúna, þá höfum vér frid við Gud, fyrir drottinn vorn Jesúm Christ, segir

Paulus til Rómv. í 5 cap. — Af þessam orðum sjáum vér þann tvøfalda sannleika: að einginn hefur frið við Guð, nema rettlátur sé; og þarnærst, að einginn er rettlátur, nema fyrir trúna á Jesúm. Í tilliti hins fyrra, stendur svo hjá Esai 48, 23: „þeir ránglátu, seigir minn Guð, hafa eingan frið." Og er það auðskilið: því hvornig mun sá syndari, hvørn Guð hefur til náðar tekið, geta haft frið við hann? En svo leingi samvitska mannsins ecki uppvaknar að þeinkja um sitt andliga ástand af alvøru, svo leingi er hann áhyggju- og hugsunarlaus um þetta efni; en undir eins og augu hans, af løgmálinu, opnast, og hiarta hans tekur að finna til sinna dauðlegu synda sára, kémst hann fyrst í stað í eitt hørmuligt ástand og samvitsku sjúkdóm, uns Guð, út af evangelio, boðar hans seku og sakbitnu sálu frið. Að verða rettlátur þýðir því, að fá fyrirgefníngu syndanna og náðarviðtøku hjá Guði. En sú fyrirgefníng og náð fæst einúngis fyrir trúna á Jesúm, og ecki fyrir neitt annað; fyrir eingar vorar eigin bænir, betrun eður góðverk, því Jesús Christur er sá, sem alleinn friðþægt hefur fyrir syndir mannanna, með sínu dýrmæta blóði, pínu og dauða. Þessvegna, nær manni gefst það, að hann með lifandi trú trúir því, að Jesús hafi í burtutekið syndir sínar, þá er einginn hlutur sá framar til, sem hnéckt geti hans samvitsku rósemi, því þá fyrst hefur hann feingið „frið við Guð." Því þarsem hugarhrelling einnar uppvakn-

adrar samvitsku-sprettur einúngis út af tilfinníngu syndа hennar og Guds reidi, sègan syndinni, þá flýtur þar af, ad undir eins og einn vesæll og skelfdur syndari þeckir, med lifandi þeckíngu, ad Christur dáid hefur fyrir þvílíka syndara, sem hann er; ad Christur, sökum þess hann er sannur Gud, er máttugur til ad frelsa jafnvel þá allrastærstu syndara; ad þetta var þad ypparsta erindi hans híngad, í heim þennan, og ad hann sjálfur sagt hefur: «hvörn þann sem til mín kemur, vil eg einganveiginn frá mér reka", undir eins, seigi eg, sem einn vesæll syndari trúir þessu, hefur hann feingid frid vid Gud; hann kann þá med gladværri fullvissu ad kalla Gud sinn födur; hann getur þá sem gott barn treyst Gudi í öllum hlutum; þá getur hann þeinkt um daudann og dóminn med hugrecki, og gladt sig af þeirri von, ad hann sídar ödlast muni dýrd og sælu hjá Gudi. Nú vil eg spyrja þig, minn samsyndari:, er nú þvílíkt, sem sagt er, ástigkomulag sálar þinnar? þeckir þú med fullri sannfæríngu, ad þar er ecki sáluhjálp í neinum ödrum, nema í Jesú Christo; ad þar er einginn fridur vid Gud, nema fyrir Christs sakir; ad nema svo sé, ad syndir þínar verdi þér af Gudi, fyrir Christs fridþægíngar skuld, fyrirgefnar, þá hljóti endiliga fyrst líf þitt í þessum heimi, ad verda í rauninni þad ólucku ligasta, og þad allt eins þó þú nytir hinnar stærstu útvortis lucku, en sjálfsagt ad lyktum daudi þinn ad verda

inngáungur til eilífrar hörmúngar? Hvert á móti, ef þú mænir uppá Jesúm, midt í sannri-ydrun og bæn, þínum vonar og trúar augum, svo sem Hann einasta naudhjálpara sálar þinnar, og ef þú, í fullri grvænilngu þinna eigin krapta til ad frelsa þig, flýr til hans, sem þíns alhvar's og hælis, þá verdur Gud ei leingur reidur vid þig fyrir syndir þínar, heldur hljóta þær allar, hvörsu margar og stórar sem þær vera kunna, ad verda þér fyrirgefnar, já þú verdur sjálfur í Guds augum velþocknanligur og elskuligur; og þó þú deyir þá á sömu stundu, áttu þad víst, ad verda erfíngi eilífs lífs. Seig mér nú, minn vin: er ecki slíkt ejtt sannarliga farsælt stand, ad þurfa fyrir eingu ad óttast né qvída, hvörki lífi né dauda; ad hafa Gud fyrir sinn vin, Christ fyrir sinn frelsara, heilagan anda fyrir sinn huggara, daudann fyrir sinn ábata, himininn fyrir sitt heimkynni, og eiga svo vissan um alla eilífd ómælanligan frid og sœgnud med öllum útvöldum? Æ, syndug manneskja! kallardú ecki þetta lucku, já þá allra stærstu lucku? En ertú þá, spyr eg þig enn ad nýu: í því ástandi, ad þér sjálfum heyri þá líka þessi stóra lucka til? Því þeir eru margir, Gud nádi þad! sem í þessu tilliti draga sjálfa sig, eins og þær fávísu mejar, á tálar. Já vissuliga ert þú í þessu standi, nema trúinn á Jesúm, sem sannan Gud og fridþægjara, búi í sálu þinni; búi þar, seigi eg, í sínu retta lífi og edli; búi þar nefniliga med heitri elsku til hans, sem af elsku til þín gaf sitt

lífi í daudann, og sú elska komi þér þá til, ad hlýda hans blessada vilja; búi þar med trausti á hans blódnga fridþægíngar offur, of hvorju trausti þá spretti vonin á hans fyrirheit, ánægja yfir hans rádstöfunum, þolinmædi í hans krossburdi og stödugleyndi í hans eptirfylgd. Þá verdur bænin til þessa þíns Guds og frelsara þér kjærasta og yndisligasta ydja; já dagliga, enda opt á hverjum degi, muntu þannig bidja til hans og andvarpa: Herra Jesú, minn Gud og fridþægjari! gefdu mér þá trú á þig, sem lifi af þinni elsku, styrkist af þínum fyrirheitum, gledjist af þinni nád, blómgist af þinni hlýdni og berjist í þínum krapti! Gef mér sídan ad hreppa trúarinnar endalok, sigur yfir öllum mínum sálar óvinum og sælufullu vistarveru í þínu dýrdarríki ad eilífu! Bænheyr mig, herra Jesú, fyrir þíns blóds og dauda sakir! Amen!

## 11 Hugvekja.

Ydur, sem trúid, er hann dýrmætur, segir postulinn Petur í síns 1 pistils 2 cap. Hann meinar her til þess hyrníngarsteins, sem Gud setti í Zion, hvørn uppbyggendur forsmádu, en er þó ordinn: ad høfud-hyrníngar-steini, yfir hvørn ad adrir Guds lifandi steinar (þad er øll sanntrúud Guds børn) eru bygd í heimi þessum til eins andligs húss og heilags prestsdæmis, til ad færa Gudi andligar fórnir, þær honum þócknanligar eru, fyrir Jesúm Christ; Já, þessi sami Jesús Christur er

það, til hvers postulinn meinar, í hvörum upphafsordum, nær hann segir: «ydur, sem trúid, er hann dýrmætur.» Og, því skyldi hann oss ecki dýrmætur vera? hann þessi vor ástudligi sálarvinur sem af kjærleika dó fyrir oss vesæla og fortapada syndara, og hvör ed kéndi í brjósti um oss, þegar vér sjálfir þecktum ecki vora eigin ólucku. Því þo di hann ecki dáid vegna vor, þá hefdum vér allir hlotid ad deya eilífum dauda í helvíti. Nú ef þér, mínir brædur! trúid því, med samvitskunnar tilfinníngu, ad syndir ydar mundu hafa ordid ydur til eilífrar fordæmíngar, ef Christur hefdi þær ecki uppá sig tekid, og ad þér eilífliga hefdud hlotid bölvadir ad verda, ef Christur ei hefdi gjörst bölvan fyrir ydar skuld; ef ad þér í ydar hjörtum finnid til einnar audmjúkrar fullvissu um það, ad ydur sé fyrirgéfníng til handa keypt med hans blódi og dauda; og ef þér med lifandi ímindun getid ímindad ydur, ad hann segi til ydar í evangelío, eins og hann sagdi fordum til hinnar bersyndugu konu (Luc. 7, 48-50.): «far í fridi! þínar syndir eru þér fyrirgefnar!» ef þér, segi eg, þetta getid og gjörid, þá verdur Christur óendanliga dýrmætur í ydar augum; þá takid þér ad elska hann fram yfir alla hluti, og leita í hönum ydar stærsta eptirlætis. Þér hafid þá eptirlæti af ad þeinkja um hann; eptirlæti af ad heyra um hann; eptirlæti af ad tala um hann; og hvad heldst hann skipar ydur, það girnist þér fúsir ad gjöra; og aptur á mót, hvad sem heldst hann

bannar ydur, þad viljid þér einganveiginn ad hafast, og þó þér med því unnid gjætud allan heiminn. Nú erud þér ordnir í honum ein ný sképna. Þér getid nú ei leingur feingid af ydur ad lifa, eins og þér hafid ádur lifad. Nú erud þér ad nýu sæddir, svo þad á heima hjá ydur, sem ritníngin í þessu tilliti seigir: „þad gamla er umlidid; allir hlutir eru nýir ordnir" 2 Cor. 5, 17.) Þeir hlutir, sem þér ádur hötudud og höfdud leidindi á, til dæmis: ad tilbidja Gud og vegsama hann, ad heyra hans ord predikad edur lesid, edur og ad lesa þad sjálfir; af öllu þessu hafid þér nú yndi og eptirlæti; þvert á móti, á þeim hlutum, sem þér ádur fyrri höfdud ánægju og skemtun af, svo sem af hjegómligu samtali vid adra; fánýtum dægrastyttíngum og þessháttar; á öllu þessu hafid þér feingid ama og vidbjód. Nú getid þér ecki geingid til reckju ad qvöldi dags, án þess hjartanliga ad þacka ydar tilbeidsluverdasta Gudi og frelsara, fyrir allar sínar miskunsemdir; sem hann ydur þann lidna dag til lífs og sálar audsýndt hefur, edur án þess ad fela ydur sjálfa og allt þad sem ydur tilheyrir, undir hans nádarríka vernd og vardveitslu komandi nóttu, en einkum, í trunni til hans forþenustu, ad fela sálir ydar í hans nádarhendur, svo þó þér innan næstkomanda morguns deya skyldud, ad hann þá vyrdist ad taka ydur til sinnar dýrdar. Eins þegar þér stígid af sæng ad morgni, þá getid þér ecki feingid af ydur ad gánga til ydar veraldligu sýslana (og

þó þær bædi séu leisligar og tilheyri ydar standi), án þess þér ádur bedid hafid Gud af öllu hjarta, ad vardveita ydur frá þeim snörum heimsins og holdsins, svo vel sem freistíngum Satans, er í veg fyrir ydur koma kunna, svo þér ecki hrapid í syndir og lesti, heldur getid í öllum hlutum varkveitt góda samvitsku, fyrir Gudi og mönnum. Midt í ydar erfidi munu þánkar ydar þráfaldliga lypta sér til Guds og andligra hluta, svo þó ydar útvortis sýslanir sýnist mest líta til jardnesskra naudþurfta, mun þó andans innvortis ábyggja hneigast mest til himnesskra; og þó þér seud hér nidri ad líkamanum til, mun ydar umgengni þó heldst vera á himnum, hvar ydar retta födurland er, og hvadan þér væntid drottins vors Jesú Christs. Ad vísu munud þér trúliga erfida í ydar stétt og kalli, fyrir líkamans naudsynjum ydar og annara, en þessi áminníng Jesú: »verkid fædu, ecki þeirrar sem forgeingur, heldur þeirrar, sem stödug blífur til eilífs lífs«. (Joh. 6, 27.) mun ydur sífeldliga í minni vaka, og gjöra þad ad verkum, ad þér ætíd látid sálarinnar umsorgun í fyrirrúmi sitja. Af því Jesús Christur er ydur svo dýrmætur, munu bodord hans og áminníngar verda ydur mikid minnisstæd, og elskan til hans mun gjöra ydur bædi yndælissullt og lettfeldt ad fylgja þeim. Ad þócknast honum og gjöra hans vilja, mun verda ydar ypparsta augnamid og eptirlæti. Og þegar ydur verdur óvart ad gjöra

eitthvað sem þér haldið honum sé á móti, munu ydur taka það sárara, enn alt annað mótlæti, og ecki hafa ró í ydar samvitsku, syr enn þér hafið á nú, með ydruninni, sætt ydur við hann aptur. Mótlæti lífsins munuð þér með þolinmædi bera honum til dýrdar, því heldur sem þér finnið, að það styrkir sálir ydar til að stríða á móti þeirri íbúandi synd, og þar að auki gjörir ydur samlíkari, ydar dýrmæta frelsara, enn alla. Þannig munuð þér, þá kappkosta að stríða ydar stríði og bera ydar byrdi, í Jesú eptirfylgd, alt til dauðans, hver ed þá lokfins mun gefa ydur, sem þeim «er góðri baráttu barist hafa, hlaupið fullkomnað og trúnni-behaldið, kórónu rettlætisins."
Sá allradýrmætasti vinur sálna vorra, Jesús Christur, gefi oss öllum þetta hugarfar, svo vér, fyrir trúna á hans nafn, verdum hluttakandi evangelii fyrirheita, fyrst hér í ríki náðarinnar, og síðan í ríki dýrdarinnar að eilífu! Amen!

## 12 Hugvekja.

Eptirfylgið helguninni, án hverrar einginn kann drottinn að sjá! svo áminnir postulinn í pistilsins til Hebr. 12 cap. — Þessi áminníng er yfrið naudsynlig fyrir alla þá sem sannkristnir vera vilja; því helgunin er, á sinn hátt, eins naudsýnlig til sáluhjálpar, sem trúin. Því svo sem "án trúarinnar er ómögulígt Gudi að þócknast", svo er «án helgunarinnar (edur

heilags lífernis) ómøguligt Gud ad sjá", en ad sjá Gud, er sama sem ad njóta hans nádar, med fullkominni farsæld. Já, á milli helgunar og trúar er svo náqvæmt samheingi, ad þar sem annar er, þar eru allstid bádar, nema hvørig sé; því án helgunar, edur heilagleikans, getur eingin sonn né sáluhjálpleg trú fundid stad, og ecki heldur án trúarinnar nockur sönn helgan. O, hvørsu ómissanlig er þá helgunin! Hún er einkenni þeirra trúudu, og adalprýdi þeirra sáluhólpnu. Gud er einn heilagur Gud; Christur einn heilagur frelsari; Guds andi einn heilagur andi; himininn eitt heilagt heimkynni; einglarnir eru heilagar verur, þar fyrir á og svo alle Guds endurleysta fólk, ad vera heilagt fólk. Þessvegna er mér þá stærsta þørf á ad spyrja sjálfan mig: er eg slíkt ein heilög manneskja, edur ecki? Sé eg þad ecki, seigir ritníngin mér fortakslaust, ad eg ecki skuli — ecki kunni — sjá Gud. Og, hvørsu skelfilig tilhugsan er þad ecki? En, hvad mun þá meinast fyrir þetta ord: helgan edur heilagleiki? hvad mun þad innibinda í sér? Mun þad merkja einasta gott og sómasamligt útvortis sidferdi? Ney, þad merkir lángtum meira. Þar getur stad haft eitt mikid regluligt útvortis sidferdi, hvar þó eingin sønn helgan edur heilagleiki býr fyrir; en allt fyrir þad, kann þó eingin helgan þar heima ad eiga, hvar gott og gudligt sidferdi brestur. Eg vil sýna ydur nockur kenniteikn einnar heil-

agrar mannesfju. Sá madur, sem, eptir ritníngarinnar skilníngi, kann heilagur ad kallast, hann heldur sér ecki einúngis frá syndinni hid ytra, heldur hatar hana og svo í hjarta sínu. Hann hatar ecki ad eins sumar syndir, heldur allar syndir; eins þær sem náttúrusar hans er mest hneigt til, sem hinar, er hann er bitinn frá; ecki ad eins stórsyndirnar og þær sem mikid áber, heldur og svo þær smáu, sem fáir vita og adgjæta; ecki hatar hann ad eins þær syndir, sem hönum geta ordid til tímanligs skada og skammar, ef hann þær drýgir, heldur og þær, sem hann getur haft ábata og æru af hjá mönnunum; ecki einasta syndir, faldar í því ad gjöra þad sem íllt er, heldur og svo í því, ad vanrækja þad sem gott er; í einu ordi: ein heilög manneskja hatar allt þad, og hefur andstygd á því, sem hún veit ad ecki sambýdur Guds vilja. Hún hatar ecki einúngis syndina, heldur og sjálfa sig vegna syndarinnar; ecki einúngis vegna þeirrar gjöranligu, heldur og svo vegna uppruna syndarinnar; ecki einasta vegna sinna ádurdrýgdu, ásetníngssynda, heldur líka svo vegna þeirra, sem enn nú af breisk-leika vid hana loda. Hún fordast því syndina, eins og annan höggorm, og þó ecki ad eins syndina sjálfa, heldur og svo allt tækifæri og tilefni til hennar, já, ad svo miklu leiti sem hún getur, allt þad sem hefur íllt álit. En midt í öllu þessu, midt í því ad ein heilög manneskja hannig, sem,

sagt er, hatar syndina og fordast, finnur hún þó nú, miklu betur enn ádur, medan hún óhelgud var, hvörsu allt sitt náttúrufar er fullt af eitri syndanna; nú verdur hún vor vid syndir, ecki einúngis í lifnadi sínum, heldur og svo í hjartalagi; hún gjörir sér samvitsku ecki einúngis út af vondum ordum og verkum, heldur og svo út af vondum þaunkum; hún girnist ecki einúngis ad sýnast góð í augum heimsins, heldur og svo ad reynast góð í augliti Guds, sem ransakar hjörtun; í einu ordi: hún sækist eptir ad sinn heili þeinkiog lifnadar-háttur sé lagadur eptir Guds-sinni og vilja. — Ransaka þig nú, mín kæra medmanneskja! hvört þú ert þannig á þig kominn, sem sagt er, og láttú þér undir eins í hug falla, þad sem skrifad stendur: „ad án helgunar, slíkrar helgunar sem útmálud er, kann einginn Gud ad sjá!" Og svo þú skiljir þetta enn betur, þá skaltú vita, ad helgunin sú sanna er í stuttu máli „kjærleikur Guds, sem úthelltur er í vor hjörtu, fyrir heilagan anda, sem oss gefinn er." Þessi kjærleikur er sú retta hrærandi orsök hjá einu Guds barni, til allrar þess hlýdni vid Gud sinn; en ord Guds er reglan, eptir hvörri þad lagar sig; og dýrd hans þad endamál, sem þad stefnir til, í öllu sínu heilaga lífferni. Þannig er kjærleikurinn til Guds og þess krossfesta Christs þad retta helgunarinnar líf, eins og trúin er hennar sanna rót og uppspretta; og nema ein manneskja verdi,

á þennan hátt helgud edur heilög, kann hún aldrei inn ad gánga í himnaríki. Trúir þú nú, minn bródir og systir, ad þetta satt sé? og ef þú trúir því, er þad þá þín óaflátanlig bæn til Guds í Jesú nafni: ad hann vyrdist „ad helga þig allan, þinn líkama, sálu og anda", med síns guddómliga anda nádarkrapti? Ef svo er, þá hefur Drottinn allareidu byrjad eitt gott verk í þínu hjarta, og hann mun, ef þú ecki „yfirgefur þinn fyrsta kjærleika", „fullkomna þad allt til dags Drottins Jesú Christs", svo þú meigir „framleiddur verda heilagur og óstraffanligur, fyrir hans augliti, í kjærleikanum." Og þá fær þú loksins ad uppskera trúarinnar, svovel sem kjærleikans og helgunarinnar, endalok, hvört ad er eilíft líf, Guds nádargáfa í Drottni vorum Jesú Christo. Hennar unni hann bædi þér og mér og öllum sínum börnum hluttakandi ad verda; hann sem er Gud yfir öllu, blessadur ad eilífu! Amen!

## 13 Hugvekja.

**Bídandi þeirrar blessudu vonar og dýrdarligu opinberunar hins stóra Guds og endurlausnara Jesú Christs,** seigir Páulus í pistl. til Tit. 2 cap. Þetta er þad dýrmæta einkaleifi, sem Gud veitt hefur þeim sem trúa á Christ, ad þeir, med tilhlöckun, meiga bída hans sídari opinberunar. Jesús hefur fyrirheitid því í sínu ordi, ad hann vilji til þessarar

veraldar sýniliga aptur koma; og ad hann vilji „koma snarliga" (Op. 22, 20.) Hann hefur til kynna gefid, ad þess hans sídari tilkoma muni ské mjøg hastarliga, ad hann koma muni sem „þjófur á nóttu" (1 Theff. 5, 2.) uppá þad manneskjurnar skuli þess varengdarsamari vera, og ástunda ad vera vel vidbúnar, nær sem kallid kemur. Þeir trúudu eru þá þvílíkir menn, sem þrejandi bída þessarar Jesú opinberunar, vænta hennar og búa sig, sem best þeir geta, undir ad taka á móti henni. Þeir vita vel ad augnamid þessarar hans tilkomu er tvøfaldt, eins og postulinn kennir (2 Theff. 1, 8. 10.) Fyrst þad: „ad hann skuli opinberast af himni, med sínum voldugu einglum og eldsloga, til ad hefna á øllum þeim, sem ecki þeckja Gud, og þeim sem ecki hlýda evangelío Drottins vors Jesú Christs, hvørjir ad munu straffadir verda, med eilífri útskúfun frá augliti Drottins, og frá hans dýrdarligri makt." Þessi er nú sá annar tilgángur hans komu á sídarsta deigi til dómsins. En þar er ogsvo einn annar tilgángur, sem trúadir menn vita, og hann er þessi „ad hann verdi dýrdligur gjørdur í øllum sínum heiløgum, og dásamligur í øllum þeim sem á hann trúa." Þetta er nú sú „blessada von", eptir hvørrar uppfyllíngu allir trúadir Jesú vinir bída; og grundvøllur þeirra bidlundar er tryggur og áreidanligur, nefniliga þessi: „ad þeir hafa frid vid Gud, fyrir Jesúm Christ." Øll þeirra

syndа sekt, sem er sú eina orsök til þess ótta, er þeir hafa kynnu, er fyrir Jesú friðþægíngu burtutekin. Þeir trúa því fast og víst, og hafa gildar ástæður til sinnar trúar, að dómarinn sé sinn vinur; þarfyrir bíða þeir hans tilkomu til dómsins, með hughraustri og glaðri eptirvæntíngu. Já, sú eptirvæntíng er full af inniligri girnd og laungun, að Jesús þeirra frelsari og vinur komi sem fyrst; en orsök þeirra laungunar er sú, að þeir finna að þeir í þessu nálæga líkamans lífi hvorki hafa né hafi geta nokkra staðfasta hvíld og rósemi. Það fyrsta og stærsta, sem þeir reyna að spillir sinni rósemi hér í lífi, er syndaspillíng sú sem með þeim býr, svo leingi þeir búa í líkama þessa dauða; já, ekki einasta þvílík spillíng, sem getur ollað því að þeir syndgi, heldur sú sem einnig í raun og sannleika gjörir það; þessvegna þó þeir fyrir Guðs náð nockurnveiginn séu fullvissir um (og þó er sú fullvissa ekki alltíð eins sterk), að syndarinnar sekt sé, fyrir krapt þeirrar lifandi trúar á Jesú friðþægíngu, sem í þeim ríkir, burtutekin af sinni samvitsku, svovel sem hennar elska og yfirdrottnan af sínu hjarta, þá finna þeir samt, með sárri tilfinníngu að syndin býr í sér; að í sínu holdi býr eckert gott; að það góða, sem þeir vilja gjöra, gjöra þeir ecki, en það vonda, sem þeir ecki vilja, gjöra þeir"; og þó þetta skei, þvert á móti þeirra áformi, bænum og baráttu, ollir það þeim samt margra sárra

hugarhrellínga, að þeir þannig móðga sinn besta vin og velgjörara, og lángar því hjartanliga eptir, að þetta sitt syndum spilta jarðnéska hreisi mætti niðurbrotið verða, og að Jesús, á þann hátt, vildi sem fyrst koma og frelsa þá frá «lík-ama þessa dauða." Það annað, sem Guðs börn reyna til hindrunar vera sinni sálarrósemi hér í lífi, er vondska veraldar þessarar, í hvörri þaug búa, fyrir hvörrar freistíngum þaug finna sig aldrei óhult vera meiga; þar hennar hneigslanligu dæmi og umgeingni eru lík eldtinnunnar gneist-um, svo næm til að festa sig í tundri syndum spilltrar náttúru, er orðið getur að skaðvænu báli, er setji sálir þeirra í hættuligasta voða hins and-liga lífs; þessvegna þreja þaug eptir Jesú til-komu til að dæma þennan ránglætisfulla heim, svo bæði sjálf þaug, og önnur Guðs börn, mættu sem fyrst fullkomið frelsi fá, frá þessum sinna sál-arsvina umsátrum. Þó fela þaug allt þetta sín-um Guði og frelsara á vald, og bera sig að stríða sitt stríð með þolinmæði og trúlyndi, allt til dauðans, treystandi því, að Jesús muni koma og ekki tefja, þegar hans alvitska sjer það hentugast vera. Þessi er þá hjálmur þeirrar blessuðu vonar, sem Guðs börn sér á höfði bera í orustu trúar-innar, hvör það að verkum gjörir, að þó þaug, meðan í þessari tjaldbúð síns líkama búa, sen svo þúnga hlaðin af byrði synda, freistínga og mótlætis, að þaug hjartanliga «forleingi eptir að

verda fjarlæg frá líkamanum og heima hjá Drottni", meiga þaug þó fullvíst um það vera, að «í dýrðar; samligri opinberun Drottins Jesú Christs, muni Guð þurka øll tár af þeirra augum, og að dauðinn muni ei framar tilvera, ecki sorg, kveinstafir edur nockur pína", vegna þess að allt hid fyrra sirsð vid þeirra sálaróvini hold, heim og Satan, er þá umliðið, en þaug, svo sem þvílíkir, «er réttferðugliga hafa framgeingið, komnir til eilífs friðar", í þeirri himnesku borg, «sem ei þarf sólar né túngls við, því Guðs dýrð uppljómar hana, og hennar ljós er lambið." Þessvegna meðan Guðs børn hrekjast í þessari heimsins útivist, hrópa þaug ydugliga «með andanum og brúdurinni: kom, já kom herra Jesú!" Og Jesús svarar þeim aptur af sínu orði: «sjá þú, eg kem snarliga, og mín verdlaun meður mér!" Og við þetta hans loford viljum vér hugga oss, og bíða, svo gladir, sem vér gétum, í voninni, þar til það uppfyllist. «En hann, sem er Guð vonarinnar, fylli oss með øllum fagnaði og friði í trúnni, svo vér høfum gnógliga von fyrir krapt heilags anda! Amen!

## 14 Hugvekja.

Ef þér, sem vondir erud, kunnid að gefa børnum ydar góðar gáfur; hvørsu miklu framar mun þá ydar himneskur fadir gefa þeim heil. anda, sem hann,

bidja, seigir Christur hjá Lúc. 11 cap. Í þessum ordum leisir vor nádarríki fadir, sem á himnum er, ofs, ad gjøra álykiun um eitt mikilvægi atridi, áhrærandi vorn Kristindóm, og byggja þá somu á sannfæríngu vorrar eigin samvitsku. Hann vitnar til vorra eigin hjartans tilfinnínga, svo sem foreldra, í þeim tilgángi, ad uppbveija vora von og lífga vort traust til sinnar eigin fødurligu miskunar; hann seigir: „ef einn sonur skyldi beidast brauds af einhvørjum ydar, sem væri hans fadir, mundi hann þá gefa syni sínum stein?" ellegar ef eitt húngrad barn skyldi koma til fødur síns og seigja: „fadir minn! eg ætla ad deya af húngri; gefdú mér braud ad eta! mundi þá faditinn (nema hann væri verri enn eitt villudýr) gefa þessu sínu barni stein, til ad draga gis ad því? ellegar ef þad bædi hann um fisk, mundi hann þá gefa því høggorm, til ad deyda þad?" vissuliga øldúngis ecki! „Hvørsu miklu framar, vill frelsarinn seigja: mun þá ydar himneskur fadir, hvørs elska, til hans naudstøddu syndugu barnaskepna, er óendanliga heitari enn ydar elska til ydar líf's afqvæmis vera kann, hvørsu miklu framar, seigi eg, mun hann þá gefa þeim heil. anda, sem um hann bidja?" Þessi álykian er svo óbrigdanlig, sem hún í sjálfri sér er augljós. Nú er þad einkum tvent, sem þørf er á ad heil. andi hjá ofs verki, svo vér getum Guds nádar hluttakandi ordid, nefniliga ydranin og trúin; þessvegna

meigum ver, í krapti áðursagðrar ályktunar, biðja Guð um heil. anda, í þessu hvsruveggja augnamiði. Fyrst í tilliti yðrunarinnar, að því leiti hún innibindur þeckíngu vors synda sjúdóms, og þess læknismedals, sem Guð hefur oss við honum gefið, kunnum ver að biðja á þennann hátt: Eg er einn vesæll og sáfróður syndari; mig skortir að þeckja sjálfan mig; svo sem ber, fyrir Guðs augliti; svo sem þann syndara, er eldúngis hafi unnið til að verða skotmál Guðs rettferdugrar reidi. Mig skortir að þeckja, með lifandi þeckíngu, Jesúm Christ, sem einn endurlausnara, þar þó «að þeckja hann, sem ber, er það eilífa lífið." En þessa sáluhjálpligu þeckíngu get eg ecki oðlast, nema einasta fyrir guðliga uppfrædíngu. Nú hefur Guð heitið, að láta sinn heil. anda leida einn vesælan, sáfróðan syndara, sem með hjartans ángri til þessa síns sáfrædis finnur, í allan þann sannleika, sem naudsýnligur er til hans upplýsíngar og forbetrunar; þessvegna bið eg þig nú, minn himneski faðir, í þíns sonar Jesú nafni, að gefa mér þinn heil. anda, svo hann kenni mér að þeckja syndir mínar, eins og ber, og það sáluhjálparmedal, sem þú hefur mér og ollum heimi við þeim gefið, í þínum syni Jesú Christo! Þarnæst, í tilliti trúarinnar, kann einn ydrandi uppvakinn syndari þannig að andvarpa: Eg er einn aumur og hjálparlaus synd-

ari; eg finn að eg hefi eingan krapt til að trúa á Guðs son; eingu að síður veit eg þó, að trúin á hann er það eina, sem hjálpa kann mér til eilífs lífs. Samviska mín er að sönnu mjög þjökuð af byrdi og banni synda minna; en mig vantar með lifandi þekkíngu, að þekkja Jesúm minn endurlausnara, og krapt hans upprisu; og eg finn, að mér, með mínum eigin krapti og skilníngi, er eins ómögugligt að trúa á hann sáluhjálpliga, eins og að skapa eina nýa veröldu. Nú hefur Guð heitið, að láta sinn heil. anda skapa trúna í hjarta serhvörs þess, sem hann þarum sundurknosaður og auðmjúkur biður; þessvegna bið eg þig, Drottinn minn Guð! í míns frelsara Jesú nafni: lát þinn heil. anda hjálpa mér til að trúa á Jesúm, til þess að mín samviska friðstillist, mín sálarvelferð framqvæmist og dýrð þíns guðdómliga nafns eilífliga útbreidist! Svo er þá fullvíst, að Guð gefur sinn heil. anda öllum þeim, sem um hann af hjarta biðja. Og, ó hvörsu er oss hans náð ómissandi. Án hans aðstoðar, kunnum vér eckert gjöra, nema syndga og eyðileggja sjálfa oss. Nú vil eg spyrja yður, mínir bræður og systur: finnið þér nú til þessa skorts heil. anda íbúandi náðar hjá yður? Af náttúrunni erum vér allir jafnsnauðir hans íbúðar; og þar fyrir utan, er serhvör yðrunarlaus og í ásetníngs syndum framanandi syndari henni aldeilis sviptur. Það er syrst í sannri umvendun

sem manneskjan oðlast þessa dýrmætustu gáfu af Guði. Eingu að síður, er það þó ecki einúngis einn óumvendtur syndari, sem þarf hefur á að biðja Guð um gjöf heilags anda, heldur hefur jafnvel eitt og serhvert Guðs barn dagliga stærstu nauðsýn þar til; því nema það svo gjöri, er hætt við það tapi sínu andliga lífi, hvers tapun fylgir missir þess eilífa. Þessvegna finna Guðs börn sig sifeldliga tilknúð, að koma fram við Guðs náðartrón, til að biðja um heil. anda gáfu; já, þaug biðja svo inniliga um hana, sem eitt húngrað barn biður sinn föður um brauð. Þaug biðja hann að meddeila sér þá andligu «smurníngu, svo þaug þeckt fái alla hluti", sem þeim til sáluhjálpar ómissanligir eru, nefnilíga sig sjálf, með sinni syndaspillíngu, og Jesúm Christ, svo sem sinn einasta «vísdóm, réttlæti, helgun og endurlausn"; þaug biðja hann að auka sér vonina, glæða hjá sér kjærleikann, styrkja sig í trúnni, og gefa sér stöðuglyndi í henni allt til dauðans. — Þessi Jesú orð: «biðjið og mun yður gefast, leitið og munuð þér finna, knýið á og mun fyrir yður upplokið verða", gjöra þaug óyggjanliga fullviss um bænheyrsluna. Þaug vita að Guð brigðar aldrei sín orð; og finni þaug nockurn skort á bænheyrslunnar uppfyllíngu, kenna þaug það einúngis sínu kaldlyndi í bæninni, en eingan veginn síns himneska föðurs hjartalagi. Þaug halda þessvegna affram í yðju bænrækninnar og

þreitaſt ecki, uns Guds andi ber þann vitnisburd med þeirra anda, ad þaug séu Guds børn, þá ſmacka þaug hvad ſætur og ljú ur Drottinn er, og eru hjartanliga glød í Gudi ſínum heilsugjafara. O, ſælir eru allir þeir, ſem þvílíkrar luccu njóta! Gud gefi øllum oss, fyrir Jesú Christs ſkuld, ad verda hennar hluttakandi bædi í lífi og dauda. Amen!

## 15 Hugvekja.

Øllum mønnum er áſett einuſinni ad deya, og þar eptir kemur dómurinn, ſtendur i piſtl. til Hebr. 9 cap. Þad er oss, mínar kjæru medmanneſkjur! kunnugt, ad vér allir erum daudligar ſkepnur. Allareidu høfum vér mátt ſjá marga af ockar kunníngjum og ſkyldmennum lagda í grøfina; marga á ſama aldursſkeidi ſem vér, og marga miklu yngri, og eptir útvortis áliti, eins lífliga, ſem oss, til ad geta leingur lifad. Suma þeſſara høfum vér ſjed og vitad burtuſlutta úr lífinu med lángvarandi ſjúkdómi, en ødrum haſtarliga, án undangenginnar adværunar burtukippt. En Gud einn veit nú, hvønær hann vill, ad vér ſkulum þeſſum á eptir ſylgja, inní adra verøldu. Vér vitum ecki hid minſta fyrirfram um vorn daudadag (því vorir tímar ſtanda í Guds hendi); þad getur vel ſkéd, ad vér á komandi nóttu verdum burtukalladir. Þar um erum vér fullvissir, ad daudans augna-

blik hlýtur lokSins ad koma, já, og jafnvel ad þess sé máské ecki lángt ad bída; en hvørsu nærri þad vera kunni, veit einginn af oss, ódara enn ad kemur. Nú ef þetta er sannleikur — svo sem þad vissuliga er — hvílík dármenska er þad þá, ad skjóta því allra naudsynligasta verki ydrunarinnar á frest, til eptirkomanda dags. Vér erum þó ecki vissir um, ad vér sáum morgundaginn ad sjá; en þad vitum vér fyrir víst, ad ef vér deyum ydrunarlausir, fortapumst vér eilífliga. Og þar sem ydran og trú er ein Guds gafa, og vér sjálfir getum ei veitt oss hana, hvad vill þá af því fljóta, ef vér vanrækjum ad bidja um hana, medan tækifæri gefst, og skirrumst vid ad hlýda hans advarandi røddu, medan sá þægiligi tíminn er? Hvad vill ai þeim undandrætti fljóta, seigi eg: nema þad, ad hann máské seigir til vor, eins og stendur í Ordsqv:bók. 1. cap. á þennan hátt: «Sokum þess eg hefi til ydar kallad, og þér hafid ei gégnt mér; eg hefi útrétt mína hønd, en eingin hefur því sæta viljad, heldur hafid þér ad eingu haft mínar rádleggíngar, og ecki skipast vid neinar mínar typtanir; svo vil eg þá hlæa ad ydur í ydar hørmúngum, og draga gis ad ydur, þegar þad kemur sem þér óttist; þegar skelfíngin og eydileggíngin kemur yfir ydur, og fordjørfunin dynur á ydur, eins og hvirfilvindur. Þegar hørmúng og hjartasorg yfirsteypist, þá munu þeir hrópa til mín, en eg vil ecki andsvara þeim; þeir munu

leita mín árla, en þeir skulu mig ekki finna, sökum þess þeir hötuðu uppfræðínguna, og vildu ekki (meðan þeir áttu kost á) útvelja sér ótta Drottins." Hvörsu hræðilig eru þessi orð Guðs? Hvör getur til þeirra hugsað, nema með skelfíngu? Jafnvel eitt Guðs barn, sem þó kappkostar að búa sig undir dauðann og dóminn, sær ei til þeirra þeinkt, nema með einslags óttasemi. Hvörsu mættu þaug þá ekki fylla hjarta þess, sem leingst æfi sinnar mótstaðið hefur Guðs anda og náð, með sinn ydrunarleysi, hvörsu mættu þaug ekki fylla þess manns hjarta stærsta qvíða og skelfíngu? þar hann ekki veit nema dauðinn, á því og því augnabliki, stefni sér fyrir Guðs dómstól, því «eptir dauðann kemur dómurinn", og einasta dómsins vegna, er dauðinn óttaligur. Því hvað seigir ritníngin: «ver hljótum allir að staðnæmast fyrir dómstóli Christs, uppá það hvörn einn úr bkum beri, eptir því sem hann hefur aðhafst í líkamans lísi, hvört sem það verið hefur gott eður íllt." Og frá þessu er einginn undanteknn; fyrir þennann Guðs hærsta rétt verða allir, án alls mismunar, kallaðir, úngir sem gamlir, ríkir sem fátækir, vesælir sem voldugir, svo kóngurinn sem þrællinn. Þeinkum þá í Guðs nafni, mínir samsekn bræður og systur! til þessa ógnarliga dags! þeinkum til hans! seigi eg: til þess að búa oss undir hann, meðan tíminn gefst, svo vér ekki þursum úrræða- og forsvars-lausir

verda, þegar vér, a þeim skelfíngarfulla tíma, krafdir verdum, af þeim rettláta og alvísa dómara, reiknings, af öllum vorum ecki ad eins ordum og verkum, heldur og svo öllum leyniligum, þaunkum og heimugliguſtu athöfnum. Þá verda bækurnar frambornar, í hvörjum uppteiknadir, finnast allir vorir vöndu þánkar, ord og verk, eingu útigleymt; og fyrir eitt og serhvört af öllu þessu verdum vér sekir eilífrar útskúfunar; já, vægdarlaust sekir, nema vér ádur, í lifanda lífi, hösum feingid þessar vorar sektir og sakir, fyrir rettgjørda ydrun og trú, afþveignar í Jesú Christs blódi. Vér lesum í Op.bók. 6 cap. ad sumir á þeim degi, muni útaf daudans skélfíngu og dómsins qvída «hrópa til klettanna og fjallanna, seigandi: fallid yfir oss, og hyldjid oss fyrir augliti þess sem á stólnum situr og reidi lambsins!" O, láti Gud eingan af oss þurfa ad finnast í þessara tölu! eingan af oss þurfa ad falla í þá grimmu vítis neyd! En, svo þad ecki ské þurfi, og vér umflúid getum þá tilkomandi reidi, þá látum oss: «leita Drottins, medan hann er ad finna, og kalla á hann, medan hann er nálægur; sá ógudligi láti af sínum veigi og illvirkinn af sinni hugsun, og snúi sér til Drottins; þá mun hann miskuna hönum; og til Guds vors, því hjá hönum er mikil fyrirgefning!" — Nú yfirstendur dagur nádarinnar, en þegar dagur dómsins kominn er, verdur ofseint ad leita nádar. En, nú á

þessum tíma stendur hún oss til boda; þó alleinasta fyrir Jesú tridþægíngar skuld, ef vér, midt í sönnu ángri út af syndum vorum, hrópum til Gudsföðurs, og bidjum hann ad fyrirgefa oss þær, vegna síns sonar Jesú Christs fridþægjandi pínu og dauda, treystum því ad hann gjöri þad, og tökum sídan út af elsku til þess krossfesta, ad fordast og flýa syndina, leyndt og ljóst; en ástunda ad gjöra Guds vilja í öllum hlutum. Sá sem þetta ecki í tíma gjörir, honum er betra aldrei fæddum ad vera; því þad er þúsund betra, aldrei ad hafa tilverid, enn vera til, til þess ad qveljast eilífliga. En þetta liggur þó fyrir öllum heim, sem deya án sannrar trúar á Jesúm Christ. Því Guds ord kann ecki ad ljúga. Gud allarmildi gefi oss þá öllum nád til ad geta dáid frá syndunum en lifad rettlætinu, ádurenn vér deya skulum burt úr heimi þessum; svo vér gegnum daudann geingid fáum inn fyrir Guds dóm í skrúddir Jesú rettlæti, og oss sídan tildæmd verdi eilífs lífs arftaka, ásamt öllum útvöldum! Amen!

## 16. Hugvekja.

**Hvörnig viljum vér umflýa, ef vér forsómum svo stóra sáluhjálp?** seigir postulinn í sendibrefinu til þeirra Hebresku 2 capitula. Hann meinar til þeirrar sáluhjálpar, sem Jesús Christur, Guds eingetinn sonur, hefur oss med sínu dýrmæta blódi og dauda afrekad. Já, í

sannleika, það er ein stór sáluhjálp; svo stór, að hún kann hvorki með orðum að útlistast, né þaunkum að sgrundast; eitt þvílíkt verk, sem ekkert minna enn eitt almætti, alvísdómur og algjæðska útkrafdist til að framqvæma. Og þessi sáluhjálp heyrir þó oss fortorpnu Adams börnum einúngis til. Eða hvílíkt var og hefði orðið vort ástand án hennar? Í þessum heimi fullt af eravæntíngu og samvitskunagi; í öðrum heimi fullt af fordæmíngu og pýslum. Syndarinnar þræl-dómur og syndarinnar straff, hefði þá hvorutveggja orðið oss eins óumflýjanligt. Þá heíðum vér allir, án alls mismunar, úngir og gamlir, hlotið að verða undir Guðs reiði tímanliga og eilífliga. O, hvörsu mikil náð var það þá, að frelsa oss frá slíkum ókjörum!" Að kónguriun skyldi frelsa þrælinn, dómarinn þann seka, skaparinn sína skepnu, og það með því móti, að taka uppá sjálfan sig, að líða það, sem hin dauðaseka þrælskepna hafði unnið til að líða, svo rettlætið í miskun-seminni gjæti þann seka til náðar tekið. „O, hvílík dypt auðæfanna er í þessari guddómligu speki! hvörsu ófinnanligir eru hans dómar, og hvörsu óransakanligir hans veigir!" En, sé nu þessi sáluhjálp svo óseigjanliga stór, hvörsu skelfiligg hætta er þá að vanrækja að færa sér hana í nyt? Hafi Guð gefið oss sinn einasta son, þá hefur hann ei annan son til að gefa oss, ef vér skúfum þessum, sem hann gaf oss. O, hvörsu

ómmsflýanlig verdur þeim þá eilíf fordæming, sem draga gis ad Guds miskunsemi í Christo, og rett sem troda hans dýrmæta blód undir fótum sér! En þad skedur med tvennu móti: annadhvørt á þann hátt, nær menn ecki trúa vilja Jesú fridþægíngu og fórnardauda fyrir heimsins syndir, og halda þessvegna hans blód «almenniligt blód", en ecki «Guds blód", sem hafi krapt ad «hreinsa mennina af þeirra syndum", og ætla svo ad vogast til ad koma fram fyrir Gud, án Jesú blóds, þvert á móti lærdómi ritníngarinnar (Ebr. 10, 19. 13, 12.); þessir munu aldeilis ecki umflýid geta fordæmíngardóm, med því postulinn synist ogsvo (Ebr. 6.) halda umvendun þeirra nærfeldt ómøguliga. En þar eru líka adrir, sem med annad slag hneigjast sig á Christo: Þeir ad vísu látast hrósa hans forþenustu verdugleika, og reida sig á hans fridþægíngu, en afneita hønum þó med verkunum, bædi innra og ytra; hid innra á þann hátt, ad þeir elska syndina, þjóna henni og skemta sér vid hana; þessvegna eru þeir ydrunar- og bænar-lausir, og sáluhjálplig trú getur ecki búid í þeirra sálu, en útvortis lifa þeir í vísvitandi holdsins verkum, eptir því sem hvør er skapi farinn og freistíngarnar mæta. Þessar manneskjur, enda þó skin gudhrædslunnar í sumu á sér beri, kunnu ecki heldur sem þvílíkir, ad umflýa «gvøl eilífs elds", nema þeir í tíma alvarliga umvendist og taki sinna skipti, annars fá þeir ecki, framar

enn hinir fyrtöldu, arftöku í Guds ríki. O, hugsid til þessa allir þér Gudi gleymid! já, hugsid til þess, ad sá tími kemur, ad ydar von mun fyrirfarast, og ad þér munud til skammar verda fyrir augliti alls holds dómara, fyrir þad þér annadhvört forsmádud eda misbrúkudud þad eina hjálparmedal, sem Gud hefur heiminum gefid í sínum syni Jesú Christo; svo «þér hafid þá einga fórn fyrir syndirnar framar, heldur hrædiliga eptirbid dómsins og þess vandlætíngarsama elds, sem mótstandarana uppsvelgja mun." Snúid ydur þessvegna í tíma til Guds í Jesú nafni, medan nádardyrunum enn nú ecki aptur lokad er, og Gud bædi vill og getur veitt ydur vidtöku, eptir sáttmála síns heil. evangelii! Eg sárbæni ydur, ad þér gefid þessum áminníngum rúm í ydar hjarta; já, eg rádlegg ydur einfaldliga, hvorsu þér byrja skulud þad mikilvæga verk, ad fridmælast vid Gud: Fallid ydugliga, í einrúmi, á ydar kné, fyrir Guds augliti, og grátbænid hann í Jesú nafni, ad gefa ydur heil. anda, til ad vekja og sannfæra ydar samvitsku um syndina, svo þér finnid til hennar med ángri og trega og getid sídan alvarliga hatad hana og umflúid; bidjid hann ad opinbera Jesúm Christ fyrir sálum ydar, svo þér getid þeinkt um hann rettiliga, elskad hann hreinferdugliga, trúad á hann stadfastliga og eptirfylgd honum þolinmódliga! Brúkid Guds lifanda ord, fyrir lampa ydar fóta og ljós á

ydar begum, svo þer ecki villist í daudans snørur, „af svikrædi syndarinnar!" Umflýid heimsins hneigslanir allt hvad ydur er møguligt, og „krossfestid ydar hold, med þess girndum og tilhneigingum!" Ef þer nú fylgid þessum: einøldu rádum trúliga (sem Gud almáttugur gefi ad verdi!) þá lofa eg ydur því, uppá Guds fyrirheita sannleika, ad ydar fjøtur skulu leysast, ydar sár skulu grædast, og ydar syndasekt skal, fyrir blódskrapt Jesú Christs, afplánud verda'! O, sælir! þúsundsinnum sælir erud þer þá, eins og allir þeir sem slíkan lifnadarmáta brúka! Þá erud þér vissuliga Guds børn, innsigladir med heiløgum anda, uppá dag fyrirheitisins; þá eru ydar nøfn skrifud á lífsins bók, og þér munud, á sídarsta deigi, verda í tølu þeirra, sem vid Jesú hægri hønd fá þessa glediligu qvedju af dómarans munni ad heyra: „komid blessud børn míns føđurs, og eignist þad ríki, sem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldar! Látid því, elskuligu brædur! tilhugsun þeirrar sælu, sem Guds børnum annarsheims geymd er, látid hana vekja lífid í ydar trú á Jesúm; líf elskunnar til hans fyrir hans endurlausn, líf vonarinnar uppá hans fyrirheit, og líf laungunarinnar til ad gjøra hans vilja; og verid svo alltíd „gladir í voninni, þolinmódir í qvølinni, stadfastir í bæninni, og ástundarsamar ad annast ydar samkristinna andligar og líkamligar naudþurftir." Svo meigid þér þá vita „ad Gud blífur í ydur og þér

í hønum, út af þeim anda, sem hann hefur og gefid ydur." Standid svo í þessu stadfastir allt til daudans, og þá mun Jesús Christur gefa ydur kórónu lífsins!" O, ad þaug fáu og einfoldu ord, sem þessi litla bók inniheldur, mætti nú færa gódan ávöxt í hjørtum þeirra, sem þaug lesa edur heyra, svo þaug verda mætti nockrum ilmur lífsins til lífsins, en eingum ilmur daudans til daudans!" Veiti þad Gud fyrir Jesú Christs skuld, hans, sem er vor sannur Gud og eilíft líf!" Amen!

## Balsamid frá Gilead.

Er í Gilead ecki ad finna
undabalsam, þeim veika líd?
Þannig réd Drottins andi inna,
um Israels kyrkju, fordum tíd.
Golgatha er betri enn Gilead;
Guds nád sé lofud fyrir þad!

Þar má lækningdóm þyggja bestan,
þar er bót øllum meinum vid;
hver þar i trúnni fót fær festan,
finnur sá líf og andar grid.
Þad medal, Christs er blessad blód,
er blæddi þar út til frelsis þjód.

Komid því allir syndum særdir
synir Adams, á þennan stad!
Allir þar verdid endurnærdir,
efalaust reyna fáid þad;
sé ydar trú í sannleik hrein,
ferhvør þar ydar batna mein.

Hví viljid deya' af sýki synda,
svoddan lækning þar øllum tjest?
Ei látid Satan ydur blinda,
ad óvyrda þad sem gagnar mest!
Komid ótraudir, komid hér!
Komid á medan tíminn er!

O, þú minn Jesú! eg vil skrída
undir þinn kross, og fá þar líf;
láttú þitt nádarbalsam blída
bæta míns anda sjúkdóms kíf!
Full-læknadur eg verd þá víst
vid mínum dauda qvídi sídst.

---

Kaupmannahøfn 1820.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.